allan og er því sízt að óttast, að menning þeirra muni doðna upp af tilbreytingarleysi, en hitt er vafarmál, hvort þjóðerni þeirra reynist svo sterkt, að það leysist eigi í sundur, þá er tímar líða fram. En ef þjóðerni Engilsaxanna helzt, þá bera þeir efalaust ægishjálm yfir öllum öðrum þjóðum, bæði Slöfum og öðrum. Og hvort mundi Ameríku þá vænlegra að leita bandalags við England — eða Rússland.

Engin ástæða er til að efast um, að þjóðareinkenni Ameríkumanna haldist eigi á komandi öldum; þeir halda sjálfsagt elju sinni og framkvæmdaþrótt. En vegna þess að nú er valla sá landskiki til, að eigi sé hann einhverju stórveldi háður, verða Bandamenn fremur að ryðja sér braut með verzlunarframkvæmdum en landvinningum. Þess vegna verða þeir að halda fast fram þeim tveimur aðalkröfum, að verzlunarfrelsið verði ótakmarkað á öllum meginstöðvum verzlunarinnar og að full lagatrygging verði veitt fyrir því, að verzlunin verði eigi heft af róstum og stjórnleysi.

En hvorki Slafar né rómönsku þjóðirnar hafa sýnt, að þær hafi vilja eða mátt til þess, að fullnægja þessum kröfum. Bæði á Frakklandi og Rússlandi fylgja menn nú hinni svæsnustu tollverndunarstefnu, og öllum er kunnugt, hvernig Spánverjum hefur gengið að halda á friði og spekt í sínum nýlendum.

England er eina landið, sem hefur haft krafta í köglum til þess, að varðveita reglu og lögtrygt skipulag í nýlendum sínum og til þess að tryggja verzlunina fullkomlega. En þar að auki eru Englendingar eina þjóðin, sem halda því fram, að verzlunarfrelsið eigi að vera ótakmarkað alstaðar, og þar kemur þeim ágætlega saman við Ameríkumenn; það væri báðum þjóðunum jafnmikið óhagræði, ef t. d. kínverski markaðurinn lenti í klónum á þeim þjóðum, er halda fram tollverndun og takmörkuðu verzlunarfrelsi.

Alt bendir því í þá átt, að Englendingar og Ameríkumenn muni innan skamms festa með sér bandalag, til þess að vernda menningu sína og áhugamál, — vernda þau fyrst og fremst gegn hinum skæðasta óvini, hinu rússneska stórveldi.

*Árni Pálsson.*

---

# Í Lánasýslu og Skuldahreppi.

(Eftir *Jonas Lie.*)

---

Á einum stað lá bær nokkur, sem komist hafði í mikla velmegun meðan fiskisældin var þar við ströndina. Svo tók fyrir þá björg og árin liðu.

En bæjarbúar héldu sig jafnríkmannlega og áður Fiskurinn hlaut að koma aftur hugsuðu þeir.

Þeir reistu hver öðrum veglegri skrauthýsi og héldu veizlur, eins og þeir væru stórhöfðingjar allir saman.

Sonunum, sem fengu að erfðum skrifstofubekkina og bækurnar og skildin og húsin, fanst þeir ekki geta gjört annað þarfara, en að feta í fótspor feðra sinna og afa, hneigja sig og hafa á sér höfðingjasnið og heilsa hver öðrum með hæversku og lotningu og bíða fiskjarins.

Svo voru þeir á flugi og ferð og veittu hver öðrum og titluðu hver annan og vildu fyrir hvern mun ekki láta á því bera, að efnin værn gengin til þurðar.

En, því meir sem gekk á peningana í járnskápunum, því stærri og traustari lása fengu þeir sér, og því meir gortuðu þeir og geipuðu af auðæfum bæjarins við útlenda skipstjóra og kaupmenn.

Svo fyltu þeir forðabúr sín og geymsluloft af dýrðlegum vínum og silkidúkum og alls konar dýrindis vörum, innlendum og útlendum, er þeir pöntuðu sér, og þeir komu sér upp skrautlegum búðum, með gyllingum og speglum, svo þær glitruðu og glóðu í götunum.

Og einn keypti af öðrum og hélt honum veizlu, til að komast hjá því, að heimtuð yrðu skuldaskil. Og hinn lánaði aftur og hélt enn dýrðlegri veizlu.

Þegar einhver af hinum fjarstöddu kaupmönnum varð smeykur um borgunina og kom að spyrjast fyrir í bænum, gjörðu helztu borgararnir ekki nema hristu höfuðið, lygndu augunum ofurismeygilega og buðust til að ábyrgjast jafnvel heila tunnu gulls.

Og þeir héldu honum veglegar veizlur; þar var gamall silfurborðbúnaður, ræður haldnar og minni drukkin, og hann naut slíks orðstírs og ágætis, að hann kaus heldur að lána þeim pen-

inga í viðbót en að heimta af þeim gamlar skuldir. Hann sá, að þeir hlutu að vera mjög ríkir, og fór þaðan glaðari en hann kom.

Hinir minniháttar borgarar létu aldrei uppi við utanbæjarmenn, hvað þeim bjó í brjósti; því þegar auðæfin fjellu í stórstraumum í skaut heldrimannanna, nutu hinir góðs af um leið.

Þannig leið ár eftir ár í mikilli velmegun og gleði. Dag hvern lifðu menn í veizlum og dýrðlegum fögnuði og drukku velfarnaðarminni bæjarins bæði seint og snemma.

Í þeim bæ vildi enginn standa öðrum að baki að rausn; svo þegar einhver hafði haldið miðdegisveizlu hélt annar enn ríkmannlegri veizlu í móti.

Og hverjum sæmilega skynberandi manni var það ljóst, að nauðsyn bar til að fylgjast með tímanum, ætti bærinn ekki að verða talinn gamalær eftirbátur annara, og verða svo á endanum að réttu og sléttu greni.

Svo létu húsmæðurnar hver í kapp við aðra menn sína panta damasksdúka af nýjustu og vönduðustu gerð, til þess að hátíðabragur væri á veizluborðunum. Og svo voru þar há skrautker og glös og alls konar könnur úr fægðum krystalli, og tveir, þrír skærir og skínandi ljósahjálmar héngu niður úr loftinu yfir borðunum, til þess að gestirnir gætu glatt sig af hjarta og séð, hve alt var af allra nýjustu og beztu tegund.

Í búðum og skemmum lagði ilminn upp af kistum og kössum, er höfðu að geyma sælgæti og fágætt krydd, til að bæta bragðið og gjöra úr dýrar krásir. Sjaldgæt, kryddlögð aldini og sojur voru pöntuð á misseri hverju, svo að jafnan var af allsnægtum að taka, bæði af því, sem nú var talið, og yfir höfuð af hverju því, sem húsmóðir, sem á að stjórna stóru heimili með mikilli rausn og mörgum þjónum, þarf á að halda.

Og bændurnir komu akandi alls konar sláturfé og aligæsum og hænsum og kálmeti og rótum og afhlestu því öllu inni í hinum rúmgóðu kaupmannsgörðum, og fengu góðar vörur á vagninn í staðinn.

Í þeirri verzlun voru ekki peningar hafðir um hönd. Þeir voru svo sjaldséðir, að hjá bændunum uppi í sveitinni var áttskildingur úr silfri með mynd konungsins settur í umgjörð með gleri yfir og geymdur sem auðnupeningur.

Á þennan hátt kom á hreyfing og fjör og mikil verzlunar-

viðskifti, og bærinn blómgaðist og tók stöðugum vexti og viðgangi, svo furðu gegndi.

Heldrimannavagnar og veiðivagnar, matvagnar og bændavagnar skröltu um göturnar. Það varð naumast komist þversfótar fyrir mannþyrpingunni, sem var að fara til kaupa í búðirnar og fá skuldina innfærða í viðskiftabækurnar. Og þegar á daginn leið, úði og grúði á táunum af fólki, sem var að ganga sér til skemtunar og horfa hvert á annað og heilsast og sýna nýju fötin sín.

Hinn helzti af borgurunum, sem gekk við gullhúnaðan göngustaf og átti stærsta húsið og var skuldugastur, áleit, að bezta sönnunin fyrir því, hve þroski og velmegun bæjarins færi sívaxandi, væri óhófið, sem þar ætti sér stað.

En hverjum var það að þakka öðrum en hinum ötulu atorkumönnum, sem kunnu lagið á því að draga arðfé og lánstraust til bæjarins. Þess vegna voru haldin heiðursgildi og fagnaðaröl og afmælisveizlur og heimsóknir með fánum og blysum á silfur- og gullbrúðkaupsdögum. Og eins var það, þegar sjötíu og fimm eða hundrað ár voru liðin frá því, að afi þeirra eða langafi sté á land á bryggju bæjarins, eða undirstöðusteinninn var lagður undir hús þeirra, sem mann fram af manni hafði verið aukið og fært út til allra hliða, svo að enginn mundi hafa gjört sér í hugarlund, hve lítill fyrsti vísirinn til þessa alls hafði verið.

Og þegar einhver af feðrum bæjarins sálaðist, var haldin fádæma sorgarhátíð. Um allan bæinn blöktu merki á hálfri stöng, og eins á skemtiskútunum og seglbátunum á höfninni, og öllum búðum var lokað. Svartir dýrindisdúkar voru pantaðir til að breiða á göturnar, söngfélög og alls konar félög þrömmuðu af stað í fylkingu, sem aldrei ætlaði enda að taka, en lúðrarnir drundu dimmum sorgarsöng, og á kistunni, sem var alþakin blómum, lágu pálmar og eikisveigar. Við gröfina var sunginn kórsöngur, og presturinn kallaði alla, sem viðstaddir voru, til vitnis um það, hvílíkur ágætis heimilisfaðir og gestgjafi hinn framliðni hefði verið.

En einstöku sérvitringar — eins og margir þeir eru, sem alt af fara sinna ferða og aldrei eru á sömu skoðun og aðrir, og enginn bær er laus við — skildu ekkert í því, á hverju bærinn gæti eiginlega lifað.

Á höfninni lágu ekki önnur skip en seglbátar og skemtiskútur; ekki var svo sem fiskiaflinn, og á landi var hvorki á skógarhöggi né málmnámi að græða. Ekki voru þar heldur verk-

smiðjur eða iðnaðarmenn, sem smíðuðu neina þá muni, er keyptir væru af utanbæjarmönnum.

En bæjarbúum sárnaði að nokkur efi skyldi leika á þessu, er varðaði bæinn svo miklu.

Það lét þeim illa í eyrum. Og loks fengu þeir þetta mál lagt undir úrskurð hins háa háskóla.

Fræðimenn hlutaðeigandi háskóladeildar struku nú allir þrír hökuna og fóru að brjóta heilann um, hvernig í þessu lægi.

Um eitt atriði kváðust allir hinir þrír doktorar vera fyllilega sammála, sem sé, að óhugsandi væri, að nokkur bær gæti verið án þess að hafa einhvern atvinnuveg.

En svo kom það, sem var aðalsnurðan á öllu saman.

Þrátt fyrir hinar nákvæmustu og rýnustu rannsóknir varð ekki sýnt fram á, að þessi bær hafði neinn atvinnuveg.

Og þó var það deginum ljósara, að bærinn var til.

Og hér stöðnuðu allar hugsanir þeirra, og þeir urðu að láta sér nægja lauslegar getgátur.

Sá, sem elztur var og frægastur af háskólakennurunum, og gefið hafði út rit eitt um ríkisskuldirnar og sýnt fram á, að því skuldugri sem þjóðin væri, því hamingjusamari væri hún, ímyndaði sér, að einhverju líku kynni að vera að gegna hér; en hann lét ekkert uppskátt og vildi ekki láta skoðun sína í ljósi að svo stöddu.

Annar háskólakennarinn benti á, að alkunnugt væri, að til væru stór höf, eins og t. d. Kaspiskahafið, án þess þó að unt hefði verið að finna nokkurt sýnilegt afrensli, og að hugsanlegt væri, að náttúran léki líkan leik hér.

En þetta hrakti hinn þriðji í snörpu og sáryrtu riti með því, að hér væri ekki um afrensli að ræða, heldur aðrensli — einmitt það gagnstæðasta, sem hugsast gat.

Um þetta þráttuðu þeir tveir af mesta kappi í ýmsum tímaritum.

Og þeir mundu hafa haldið áfram enn þá, ef hinum fyrnefnda fremsta og frægasta af háskólakennurunum hefði ekki skyndilega tekist að leiða skýr og óyggjandi rök að því, að borgararnir í hlutaðeigandi bæ lifðu aðeins og einungis hver á öðrum sín á milli.

Og hann sannaði í riti einu í sex bindum, að eins væri ástatt með marga aðra bæi í heiminum.

*Guðm. Finnbogason,*
Þýddi.

---

# Þýdd kvæði.

## I. Norskur sjómannasöngur.

(Eftir *Björnstj. Björnson.*)

---

Hið norska sævar-lið
Er barkað ægis bylgjur við.
Þars fljóta fley um sjá
Það fremstu stöðvar á.
Í förum hafs og hér,
Við hólma, sker og fiskiver
Til guðs það trútt ber geð,
Og leggur líf í veð.

Það liðið langdrægt stríð
Fyr lífi þreytir ár og síð.
Á margeim meginhraust
Við manntjón endalaust.
En það af fám er þekt,
Það þykir mörgum hversdagslegt,
Og oft var enginn sá,
Sem atburð skýrt gat frá.

En veslings fiskifar
Svo furðu margfalt afrek bar,
Við hreysti og kænleik kent,
Þó kæmi hvergi á prent;
Og æfi margs hlaut manns
Úr marar þangi dauðans krans,
Sem hefði átt hetjum jafn
Að hljóta gullskráð nafn.

Til Ólafs-krossins hróss
Vann ötull margur vestanlóss,
Sem hundrað frelsti menn
Og hundrað þar til enn,
Og margur sveinninn smár,
Með hvolfdan bát er lenti knár,
Þá faðir fórst í sjó —
Hans mætti minnast þó.

En strönd við straum er gráðs
Hið stóra móðurbrjóst vors láðs
Með björg og blíðtár mær
Við bura hraustverk kær.
Það í sér alt ber geymt,
Og ei því minsta þar er gleymt,
Frá *Hafursfjarðar* hríð
Að hinztu skipbrots tíð.

Það fann hver horfinn heim,
Sem hafði um víðan farið geim,
Það sárast sérhver fann,
Er sitt land kveðja vann;
Á hafi fann það hver,
Að heill vors lands á sætrjám er;
Þau heimtu' oss hrós og lán
In hvítu segl um rán.

Og heill sé höldum æ,
Und norsku flaggi er sigla um sæ,
Og hverjum léssi þeim,
Sem leiðir skip vor heim;
Heill þeim, er fiskjar til
Á bátum róa um ránar hyl;
Heill ljúfri strönd vors lands,
Sem lykur skerja krans.

---

## II. Svissneskur þjóðsöngur.

(Eftir *Gottfr. Keller.*)

Ó mitt ættland kært, ó mitt fósturland!
Heitt eg ann af öllu hjarta þér.
Fegurst rós, þá dauð hver önnur er,
Ilmar þú um lífs míns beran sand.

Fyr eg fór um lönd, fátækt glaður bar,
Móts við kóngs dýrð mat eg fjöll þín há;
Gleymdist hirðprjál, þú varst öll mín þrá,
Þú mitt dramb, svo snauður sem eg var.

Land mitt, þér er langt eg dvaldi frá,
Löngum dýpstan hugartrega eg fann,
En hve fljótt í fögnuð breyttist hann,
Er eg einhvern þinna sona sá!

Ó mitt Svissaland, þú mitt alt og eitt,
Minnar æfi þegar verða þrot,
Þó þér aumur aldrei gerði eg not,
Friðsæld hvíldar, leg mér láttu veitt.

Þegar slitnar duptgert dauðleiks band,
Drottin guð skal öndin biðja mín:
Gef að skærst og skírust stjarna þín
Skíni niður á mitt fósturland,
Á Svissaland, mitt ættland kært, mitt fósturland.

---

## III. Vetrarbrautin.

(Eftir *Z. Topelius.*)

---

Og nú er ljós á lampa slökt og leiptrar stjarnnótt skær,
Og tímans liðna minning mörg í muna vakist fær,
Og ljúfar sagnir líða í kring sem log um geiminn blá,
Og hjartað er svo angurblítt og undrun fangið þá.

Þær stjörnur niður blika blítt um bjarta vetrarnátt,
Sem hel ei fyndist hér á jörð, svo hýrt þær brosa og dátt;
Veizt þú, hvað hljóðar herma þær? Ef hugleikið er þér,
Eg sögukorn þér kann að tjá, sem kendu stjörnur mér.

Á einni stjörnu hírðist *hann* við heiðkvölds gullna brún,
En aðra sól á öðrum stað til einvistar fekk *hún;*
Að sögn hún nefndist *Salami,* en *Zulamith* hét hann,
Og innilega af alhug trútt hvort annað elska vann.

Á jörðu hér þau höfðu átt dvöl og hnýtt hér ástarband,
En nótt þau skildi, harmur, hel og hættlegt syndar grand;
Svo hvítir vængir uxu út á elskendunum þeim
Og dvöl þeim ákvaðst afar fjær hvort öðru á stjörnum tveim.

En hvors til annars hugur þó í himins alvídd rann;
Af sólnafans var firna krökt það flæmi, er milli brann,
Og Alvalds heima undurmergð, sem aldrei verður skýrð,
Hún svam á milli Salami og Zulamith í dýrð.

En sárþreyjandi Zulamith frá sinni stjörnu í geim
Fór brú úr ljósi að byggja' eitt kveld, sem bindi heim við heim,
Eins jaðri sinnar sólar frá tók Salami sig til
Frá pól til póls að byggja brú of blágeims reginhyl,

Svo bygðu þau í þúsund ár með þrautsigrandi trú,
Og *Vetrarbrautin* varð þá til, sú voldug stjörnubrú,
Sem himinsins um hvolfið efst og hringinn dýra nær,
Og samantengdan strönd við strönd þann stjarna-marinn fær.

Það kérúbunum gerir geig, til guðs þeir fljúga nú:
»Ó, sjá, þar hefir Zulamith með Salami reist brú«.
En guð alvaldur brosti blítt — þá birti um himnasal:
»Hvað ást í heims míns reisti rann, ei rífast niður skal«.

Og Salami og Zulamith, er samtengd brúin var,
Þau hvort í annars hlupu fang, þá hófst ein stjarna þar
Í sporum þeirra og glaðbjört, glæst nam geisla um leiðir blár,
Sem springi í blómstur hjarta, er hlaut að harma um þúsund ár.

Og hvað sem elskast heitt og trútt á hinni dimmu jörð,
En sundur skilur sorg og hel og synd og kvölin hörð,
Úr heimi í heim að byggja brú ef ber það kraft sér í,
Það sína ást mun fundið fá og fagna — trúðu því!

*Stgr. Th.*

---

# Íslenzk hringsjá.

BÆKUR SENDAR EIMREIÐINNI:

BÓKASAFN ALÞÝÐU I, 3—4. Khöfn 1898. Í þessum árgangi bókasafnsins eru *Úranía* eftir C. Flammarion og *Blöstakkar* úr *Sögum herlæknisins* eftir Z. Topelius. Eru báðar þessar bækur mjög frægar, enda hinar skemtilegustu og um leið fræðandi. Má því hér kalla vel valið, ekki sízt að því er »Úraníu«

snertir. Hún er svo vel valin sem framast má verða. Að því er hina bókina, »Blástakka«, snertir, þá má að vísu segja, að íslenzkri alþýðu sé á einhverju meiri þörf, en að fræðast um herskáa víkingakonunga, sem reyndar hafa sýnt mikinn hetjuskap og hreysti, en þó engum manni gagn gert, hvorki sjálfum sér, þjóð sinni né öðrum. Um slíka menn getur verið gaman að lesa, en rétt skoðað eru þeir þó engin fögur fyrirmynd fyrir æskulýðinn, allra sízt hjá þjóð, sem ekkert fæst og aldrei getur fengist við hernað. En þessi bók hefir sjálfsagt verið valin af því, hve skemtileg hún er, enda má og líka nokkuð af henni læra, því sannur hetjudugur er í sjálfu sér ætíð eftirbreytnisverður, þó mikið geti verið að munum, að hverjum notum hann verður.

Þýðingin á »Úraníu« (eftir *Björn Bjarnason*) er mjög góð, og hefir þó sjálfsagt verið töluvert vandasamt að þýða þá bók. Málið er yfirleitt hreint og lipurt og mörg nýyrði heppileg (t. d. lámælir, varurð, dámagn o s. frv.). Þó finst oss »klaufafenginn stælari« (bls. 170) fremur klaufalegt og eins að »gjöra sér í hugarlund um eitthvað« (151). Stundum eru líka ópersónulegar sagnir gerðar persónulegar, gagnstætt því, sem rétt er, t. d. »hugsanirnar þrutu« (54), f. *h. þraut*, »loptsýnin bar fyrir hana« (70) og »sýnin bar fyrir« (98, 116) f. *(lopt)sýnina bar fyrir* o. s. frv. Enn fremur er »misst tilveru þinnar (133) rangt, fyrir *m. t. þína* (missa e—s = hæfa e—ð ekki). Prentvillur eru ekki margar, en þó nokkrar, t. d. *hjóðpípugaul* (79), *egasljetta* (83), *sæti* (117), *handur* (124), *þakktar* (135), *hnypra* (149) o. s. frv.

Þýðingin á »Blástökkum« (eftir *Matth. Jochumsson*) er að sumu leyti góð og að sumu leyti ekki. Það vantar ekki, að þar séu víða fjörugir sprettir og víða vel að orði komist. En hins vegar ber þó þýðingin vott um svo mikla hroðvirkni og kæruleysi, að slíkt er hreint og beint ófyrirgefanlegt af manni, sem hefir jafnmikið vald yfir íslenzkri tungu, eins og M. J. hefir. Og þetta verður enn tilfinnanlegra, þegar þess er gætt, að bókin er ætluð alþýðu manna. Það má nærri geta, hver áhrif það hefir á tilfinning hennar fyrir fögru máli, að lesa bók, sem úir og grúir af útlendum orðum og setningum, dönskuslettum, málleysum og röngum orðmyndum. Og af öllu þessu er nóg í bókinni og skulum vér nefna nokkur dæmi til sönnunar. Auk hinna útlendu setninga eru þar t. d. meðal annars þessi orð í hálfíslenzku gerfi: *majór*, *grenadérar*, *lautenant*, *lífdragónar*, *drabantar*, *diplómat*, *legatión*, *aðmírálsskip*, *jagt*, *vicomte*, *paruk*, o. s. frv. Og svo kemur það, sem réttara virðist að kalla dönskuslettur: *frípenkjari*, *yfirfalla*, *knurra*, *slagur* (= bardagi), *selja undan* (= renna á flótta), *fyrirmiðdagur*, *eptirmiðdagur*, *merkja* (= taka eftir), *30. nóvembris*, *deildi* (= tók þátt í) *með oss öllum erfiðleikum* o. s. frv. Enn fremur eru hér um bil alstaðar í bókinni eignarföll nafnorða og eins eignarfornöfn höfð á undan þeim nafnorðum, er þau eiga við, eins og gert er í dönsku, en sem gagnstætt er öllu íslenzku málseðli, nema alveg sérstaklega standi á. Þannig t. d. »konungsins eigin hendi«, »vorn unga konung«, »vorn unga herra« o. s. frv. Af málleysum má nefna t. d. »*það* (f. því) *verð ég að venja mig af*« (58), »*hestarnir drupu*« (f. drúptu? = hímdu, 58), »*endinn*« (f. endirinn, 34), »*orðstý*« (f. orðstír, 69) o. s. frv. En sem ritvillur virðist réttast að skoða þessi orð (fremur en málleysur): »»*ryðlum*«, »*hnegði*«, »*hlægjandi*«, »*yndæli*« (f. riðlum, hneigði, hlæjandi, inndæli) o. s. frv.

Vér gætum til tínt margt fleira; en nú mun þykja nóg komið, enda mundum vér ekki hafa hreyft við sumu af þessu, ef hér hefði verið um einhvern viðvaning að ræða. En þar sem þýðandinn er einn af helztu rithöfundum þjóðar vorrar, sem getur leikið sér við málið eins og hann vill, þá er rétt að taka hart

á honum fyrir hirðuleysið. Því ekkert getur haft eins spillandi áhrif á mál vort eins og það, ef helztu rithöfundar vorir og skáld afbaka það. Þá verður alþýðan að skoða sem fyrirmynd, er óhætt sé að líkja eftir, og getur því slæmt mál hjá þeim haft hættuleg eftirköst. »Hvað höfðingjarnir hafast að, hinir ætla sér leyfist það.«

En þótt vér þannig höfum talið oss skylt að finna að ýmsu í þessum árgangi »Bókasafns alþýðu«, þá ber eigi síður hins að geta, að hann er að öllu samantöldu mjög eigulegur, og hinn ytri frágangur hans (prentun, pappír og myndirnar) svo prýðilegur og smekklegur, að hann er útgefandanum, herra *Oddi Björnssyni,* til stórmikils sóma. Verðið er líka svo lágt, að undrum sætir, og óhugsandi að útgefandinn geti orðið skaðlaus, nema kaupendafjöldinn sé mjög mikill. Þetta ættu menn að kunna að virða og því reyna að styðja ritsafnið af alefli. Það væri töluverður missir fyrir íslenzka bókagerð, ef það yrði að hætta sökum kaupendafæðar, eða að einhverju leyti breyta frá því horfi, sem það nú er í.

ÞORKELL BJARNASON: UM ÞORLÁK ÞÓRHALLASON HINN HELGA *(fyrirlestur).* Rvík 1898. Fróðlegur og skemtilegur ritlingur, sem skýrir dýrlingadýrkun Íslendinga, trúarlíf og menningarástand á 12. öld.

GUNNSTEINN EYJÓLFSSON: TVÖ VESTURÍSLENZK SÖNGLÖG. Khöfn 1898. Lög þessi eru við kvæðin »Sólu særinn skýlir« eftir Stgr. Thorsteinsson og »Sumarnótt á heiði« eftir Jón Ólafsson. Segja þeir, sem vit hafa á, að þau séu lagleg, eða meira en það, og ættu allir íslenzkir söngmenn að kaupa þau og kynna sér. Það er ekki svo mikið, sem út kemur eftir íslenzk tónskáld, að ekki sé sjálfsagt að leggja rækt við það litla, sem birtist af því tægi.

STEFÁN B. JÓNSSON: STJARNAN. Lítið ársrit til fróðleiks og leiðbeiningar um verkleg málefni. II. ár. Winnipeg 1898. Auk almanaksins eru í ritlingi þessum ýmsar smáritgerðir og uppdráttur Manítobafylkis. Er þar meðal annars ritgerð um alifuglarækt, um kartöflur, um súrheysverkun, um verðgildi fóðurs og fleira fróðlegt. Þó virðist oss þessi árgangur yfirleitt tæplega jafnast við 1. árg. að efni; en hinn ytri búningur hans er aftur stórum betri og mál og prófarkalestur miklu vandaðra, þó enn mætti betur vera.

ÍSLENDINGASÖGUR. 20.—24. Búið hefir til prentunar *Valdimar Ásmundarson.* Rvík 1898. Í þessum 5 heftum eru þessar sögur: *Svarfdæla saga, Vallaljóts saga, Vápnfirðinga saga, Flóamanna saga* og *Bjarnar saga Hítdælakappa.* Sögurnar eru skemtilegar, frágangurinn góður og verðið lágt. Hvað vilja menn hafa það meira?

GUÐMUNDUR FRIÐJÓNSSON: EINIR. Nokkrar sögur. Rvík 1898. Í bæklingi þessum eru fjórar sögur. Heitir hin fyrsta þeirra »*Skókreppa*« og er mestmegnis lýsing á gömlum karli og æfiferli hans. Hann elst upp á sveit, föður og móðurlaus, verður mesti dugnaðar og iðjamaður, á fjölda barna og elur upp tvö vandalaus börn að auki. En er þó jafnan mesti mæðumaður og fer aftur á sveitina í elli sinni og er að síðustu holað í jörðina í útjaðri kirkjugarðsins án allrar viðhafnar, eins og lög gera ráð fyrir með sveitlægan kararfausk. Ýmislegt er allvel sagt í sögu þessari, en þó kveður lítið að henni. Hún er mjög lauslega saman sett og í henni miðri útúrdúr, sem ekkert kemur sjálfri

sögunni við. Endirinn, lýsingin á jarðarför Halls gamla og prests eins, sem jarðaður er um leið, þar sem einmitt var tækifæri fyrir gott skáld að sýna list sína, hefir tekist miður vel og liggur við að vatnsbragð sé að honum. Manni getur ekki annað en dottið í hug, hvað mundi hafa orðið úr því efni hjá Gesti Pálssyni. Andstæðurnar hefðu líklega orðið eitthvað dálítið skýrari hjá honum og komið mun betur við tilfinning lesandans.

Önnur sagan heitir »*Úr heimahögum*«, og er lýsing á lambarekstri fram til fjalla. Er sú lýsing ágæt og langbezti kaflinn í bókinni (t. d. samtalið um tóuna). En hún hefði átt að enda á miðri bls. 37. Síðari kaflinn (bls. 37—47) skemmir að mun og kemur fyrsta kaflanum ekkert við. Í þessum síðara kafla er lýsing á tveim mönnum, vanþakklátum ónytjung, sem þiggar af sveit, og fátækum atorkumanni, sem hefir mikla ómegð, en klífur þrítugan hamarinn, til þess að þurfa ekki að verða sveit sinni til byrðar. Þetta hefði getað verið dágott efni í sérstaka sögu, en þá hefði meðferðin á því þurft að vera stórum betri. Eins og þessi kafli nú er settur, er hann lítið annað en tveir samanhengislausir útúrdúrar, sem eyðileggja lýsinguna á lambarekstrinum sem listarheild.

Þriðja sagan — ef sögu skyldi kalla — heitir »*Sjóskrimslið*«. Hún er eins konar níðgrein, en hin mesta afmán og höfundinum miklu fremur til minkunar en þeim, sem hún á að meiða. Í henni er ekkert nýtilegt, nema hin vanalegu tilþrif í stílnum og ýmsar almennar gagnrýnishnútur, sem gætu verið góðar, e. þær stæðu í nokkru sambandi við efnið, en væri ekki hreytt út eins og hörðum hrossataðsköglum yfir óþrifa mosamóa.

Fjórða sagan heitir »*Útbygging*« og er aðalefni hennar að lýsa, hve harðýðgislega ungur prestur fer að því, að bola örsnauðan barnamann burt af einni kirkjujörðinni, og hverjar hvatir hans eru til þess. Það er þó að eins lítill hluti sögunnar, sem segir frá þessu. Hitt er mestmegnis lýsingar á náttúrunni, veðrabrigðum og margs konar samtíningur um hitt og þetta án verulegs samanhengis. Bygging sögunnar er því ákaflega lausleg og fjarri öllum listareglum, og eiginlega lítið í hana varið nema endirinn. Þar hefir höf. tekist upp. Lýsingin á heimili öreigans og komu prestsins þar (bls. 88—94) er ágæt (einkum samtal barnanna við móður sína o. s. frv., og veitingar hjónanna við prestinn) og eins lýsingin á ræðu prestsins á jóladaginn og áhrifum hennar (bls. 96).

Líti maður yfir sögusafn þetta í heild sinni, þá verður ekki annað sagt, en að það hafi tekist fremur laklega. Það sýnir, að höf. hefir ekki enn auga fyrir því, hvernig bygging sagna á og þarf að vera, til þess að þær geti haft tilætluð áhrif og ríði ekki í bága við allar listareglur. Söguskáld getur hann því ekki heitið enn, en ýmislegt virðist benda á, að hann geti orðið það, ef hann leggur sig til og vandar sig. Hann hefir allglögt auga og getur vel stílfært það, sem hann vill segja frá. Í stílnum er og nú orðið minni tilgerð en áður var, og er það framför. En honum hættir til að láta alt lenda í eimtómum lýsingum á því ytra, enda er hann þar sterkastur á svellinu. En hann má ekki halda, að úr þeim lýsingum einum verði saga. Hann verður að kafa betur í hugsanadjúpið og rannsaka betur sálarlíf manna og innra eðli, en hann hefir gert hingað til. Geri hann það og geti, er ekki örvænt, að hann geti orðið söguskáld. Hann hefir sýnt, að hann er ljóðskáld; hitt hefir hann ekki sýnt enn þá.

Hinn ytri frágangur bæklingsins er slæmur: prentun, pappír og prófarkalestur, og kostnaðarmanni hans lítt til sóma. V. G.

PÁLL BRIEM: SKÝRSLA UM KLÁÐAMÁLIÐ, gefin á fundum amtráðs Norðuramtsins og Austuramtsins 1898. Í skýrslu þessari er fyrst skýrt frá ályktunum og ráðstöfunum amtsráðanna til varnar og útrýmingar kláðanum í ömtunum, er voru fólgnar í því þrennu: 1. að skipaðar voru almennar baðanir á öllu fé á kláðasvæðinu, sótthreinsun á húsum og einangrun sjúkra kinda; 2. að útbýtt var meðal allra búenda ritgjörð, er fræddi þá um eðli og meðferð kláðans, og 3. að hreppstjórum var skipað að hafa vakandi auga á heilbrigðisástandi fjárins í hreppunum og gefa árlega skýrslu um það, svo hægt yrði að stemma stigu fyrir sjúkdómnum í tíma, ef hann kynni að gjöra vart við sig. Verður ekki annað sagt, en að ráðstafanir þessar séu yfirleitt mjög viturlegar. Því furðanlegra er það, hve illa þeim var tekið af mörgum í fyrstu og hve menn trássuðust við að hlýðnast þeim, og vildu fara hver eftir sínu höfði og káka í sínu horni. En sem betur fer, virðast margir hafa sannfærst um það furðu fljótt, að ráðlegast væri að taka höndum saman og gjöra alvarlegar tilraunir til þess að koma sem fyrst ófögnuðinum af höndum sér, þó enn vanti mikið á, að allir gjöri skyldu sína í þessu efni. — Því næst er skýrt frá því, hvernig fjárkláðanum hafi verið útrýmt í Noregi. Þar »hafi amtið skipað framkvæmdarstjóra til útrýmingar kláðanum og hann svo tekið sér aðstoðarmenn eftir þörfum. Með því tilhögun þessi hafi reynst svo vel í Noregi, er amtmaður þeirrar skoðunar, að sömu aðferð ætti að beita hér á landi, en það sé ekki hægt, nema gildandi kláðalögum sé breytt. Hann hefur því samið »frumvarp til laga um fjárkláða«, sem prentað er aftan við skýrsluna. Þungamiðjan í lögum þessum er ákvæðin um skipun framkvæmdarstjóra, er amtmaður skipar, og svo um eftirlitsmenn, er sýslunefndir og bæjarstjórnir kjósa. Í fljótu bragði getum vér ekki betur séð, en að fyrirkomulag það, sem frumvarpið fer fram á, sé mjög hentugt og hið eina vænlega til skjótrar útrýmingar kláðanum. Auðvitað hlýtur það að hafa mikinn kostnað í för með sér, en ekki verður í það séð, þar sem svo mikið er í húfi, enda getur kostnaðurinn aldrei orðið svo mikill, að hann verði meira en örlítið brot á móts við hagnað þann, sem hlytist af útrýmingu kláðans. — Er vonandi að stjórn og þing láti mál þetta til sín taka og styðji drengilega viðleitni amtsráðanna norðan og austan og forseta þeirra, amtmanns Páls Briems, sem á stórmiklar þakkir skilið fyrir hinn einlægu áhuga sinn og ótrauðu framkvæmdarsemi í þessu velferðarmáli. **St. St.**

## ÍSLAND OG ÍSLENZKAR BÓKMENTIR ERLENDIS:

GESTUR PÁLSSON Á BÖHMISKU. Í ritsafni einu, sem gefið er út í Prag og heitir »Svêtová knihovna«, kom út árið sem leið þýðing á tveim sögum eftir G. P. (*»Dvê islandské povídky napsal Gestur Pálsson«*) eftir *O. S. Vetti*. Eru það sögurnar »Kærleiksheimilið« *(Sídlo lásky)* og »Grímur kaupmaður deyr« *(Kupec Grímur umírá)*. Framan við sögurnar er 17 bls. formáli og er þar stutt lýsing á Íslandi og Íslendingum og getið allra hinna helztu nýrri skálda og nokkurra annara rithöfunda. »O. S. Vetti« er dulnefni þýðandans, en réttu nafni heitir hann *Al. Koudelka* og er hann prestur í bæ einum í Mähren (í Austurríki), sem heitir Nikolcic (skamt frá Seelowitz). Hann hefir þýtt fjölda bóka úr flestum málum Norðurálfunnar, og þar sem hann má heita ungur maður (f. $^{18}/_{11}$ 1861), þá má enn mikils af honum vænta, enda kvað hann hafa í hyggju að þýða fleiri íslenzk rit á böhmisku. Íslenzku hefir hann lært af sjálfsdáðum og tilsagnarlaust, og má það kalla vel gert, jafnfjarskyld og hún er móðurmáli hans.

KELTNESK ORÐ OG NÖFN Í ÍSLENDINGASÖGUM heitir ritgerð eftir *W. A. Craigie*, M. A., sem prentuð er í »Zeitschrift für Celtische Philologie« 1897. Ritgerðin skiftist í 5 kafla, og er hinn fyrsti um einstök keltnesk orð, er fyrir komi í sögunum, annar um keltnesk mannanöfn í þeim, þriði um staðanöfn og fjórði og fimti um hverjir hljóðstafir og samhljóðar í írsku samsvari hinum íslenzku hljóðstöfum og samhljóðum í þeim orðmyndum og nöfnum, er fyrir koma. — Aðra ritgerð um »Kelta á Íslandi« *(The Gaels in Iceland)* hefir sami höf. skrifað í »Proceedings of the Society of Antiquaries of Scotland« 1898. Er sú ritgerð miklu lengri og þar skýrt frá öllu, er snertir Kelta í fornritum Íslendinga. Kemst höf. að þeirri niðurstöðu, að þeir Keltar (Írar), sem komu til Íslands á landnámsöldinni, hafi verið fremur fáir og þeir svo sem engin áhrif haft á þjóðernisfar, tungu og siði Íslendinga. Þeir hafi skjótt horfið svo í sjóinn, að eftir nokkra ættliði hafi engin merki sést eftir þá. Það sé því mjög varhugavert að eigna það blóðblöndun Íra við Íslendinga, þó eitthvað kunni að finnast svipað í bókmentum þeirra og Íra, enda sé t. d. fult eins mikið keltnesk bragð að »Sonatorreki« Egils Skallagrímssonar eins og hverju öðru, og viti þó allir, að hann hafi verið algerlega af norrænum rótum runninn.

HÚSASKIPUN Á SÖGUÖLDINNI Á ÍSLANDI, GRÆNLANDI OG VÍNLANDI heitir ritgerð, sem Miss *Cornelia Horsford* í Cambridge, Mass. (í Ameríku), hefir ritað í »The National Geographic Magazine«, IX, 3, 1898. Er þar stutt yfirlit yfir rannsóknir manna á fornum rústum í þessum löndum, en þó fremur lauslegt og engin samfeld lýsing á húsaskipuninni. Einkum er skýrt frá rannsóknum þeim, er hún hefir sjálf látið gera bæði á Íslandi og á austurströnd Ameríku (Vínlandi?) og eru nokkrar dágóðar myndir til skýringar, t. d. af bæ Eiríks rauða í Haukadal og af Sámsstöðum í Þjórsárdal, samkvæmt rannsóknum Þorsteins ritstjóra Erlingssonar sumarið 1895. Þá eru og tvær myndir af rústum nálægt Cambridge, Mass. (í Vínlandi?), en þær eru, sem við er að búast, fremur óglöggar og því lítið á þeim að græða. Því miður virðist ekki enn hafa orðið neinn verulegur árangur af Vínlandsrannsóknum Miss Horsford og föður hennar; en mikla þökk eiga þau skilið fyrir þann eldlega áhuga og örlæti, er þau hafa sýnt við þessar rannsóknir, og væri óskandi að svo færi áður lyki, að þar væri ekki unnið fyrir gíg. Það er og víst, að kringum Cambridge, Mass. eru ýmsar fornmenjar, sem vert er að rannsaka, hvort sem þær kunna að eiga nokkuð skylt við Norðurlandabúa eða ekki.

ÍSLENZKAR JARÐFRÆÐISRANNSÓKNIR. Í »Geografisk Tidsskrift« XIV, 7—8 (1898) er stutt, en þó mjög greinilegt yfirlit yfir jarðfræðisrannsóknir dr. *Þorv. Thóroddsens* á Íslandi á árunum 1881—1898 og hinn helzta vísindalega árangur af þeim. Er það ritstjórnargrein og mikið af rannsóknunum látið, enda hefir og félagið síðar sæmt dr. Þ. Th. verðlaunapeningi sínum úr gulli, og hefir sú sæmd ekki áður hlotnast öðrum en Nansen og G. Holm Grænlandsfara. — Í tveimur þýzkum tímaritum vóru og greinar líks efnis um dr. Þ. Th., önnur í »Globus« LXXIV, 10 (1898) eftir frøken *M. Lehmann-Filhés* (og í henni góð mynd af dr. Þ. Th.), en hin í »Mitth. d. k. k. Geogr. Gesellschaft in Wien« 1898 (bls. 714—16 eftir dr. *August Gebhardt*. — Þá var og löng lofgrein um dr. Þ. Th. í danska dagblaðinu »Nationaltidende« og svo hefir víðar verið.

ÞÝÐINGAR ÚR ÍSLENZKUM RITUM. Landfræðissaga dr. Þorv. Thóroddsens hefir verið þýdd á þýzku af dr. *Aug. Gebhardt* og kom 1. bindið út í

Leipzig 1897, en 2. bindið 1898. Um þýðingu þessa (og bókina sjálfa) hafa meðal annara ritað dr. *Kr. Kålund* í »Zeitschrift für Deutsches Alterthum« 1897 og frøken *M. Lehmann-Filhés* í »Zeitschr. d. Vereins f. Volkskunde« 1898. Láta þau mikið af, hve þýðingin sé góð, en geta þó um ýmsa smágalla (einkum dr. Kålund). —

Úr þjóðsögum Jóns Árnasonar hefir frøken *M. Lehmann-Filhés* þýtt ýmsar smágreinar (einkum úr 10. flokknum: »Kreddur«), á þýzku, sem komið hafa út í »Zeitschr. d. Vereins f. Volkskunde« 1898. Hún hefir og birt útdrátt úr grein Jóns læknis Jónssonar í Fornleifafélagsárbókinni 1897 um kjallarann á Skriðu í Fljótsdalshéraði.

Úr Eimreiðinni hefir verið þýtt á norsku »Álfakrossinn« (með mynd) eftir *Kr. H. Benjamínsson* og »Hundurinn Garmur« eftir *Jóhannes Þorkelsson*, og hafa báðar þær þýðingar komið út í blaðinu »Heimhug« 1898, og er þýðingin líklega eftir ritstjórann. Þar er og þýðing á kýmnisögu Jónasar Hallgrímssonar »Að tyggja upp á dönsku« og ýmsu fleira.

ÍSLENZKUR RITSTJÓRI Í NOREGI. Í Álasundi (Aalesund) í Noregi byrjaði árið sem leið að koma út unglingablað, sem heitir »HEIMHUG« og er ritstjóri þess Íslendingurinn *Ólafur Felixson*, en blaðið er eign Norðmanns, sem einnig gefur út annað stærra blað. Ó. F. er ættaður úr Rangárvallasýslu, en fór fyrir mörgum árum fátækur og umkomulaus til Noregs og hefir nú í nokkur ár fengist við blaðamensku í Þrándheimi, unz hann varð ritstjóri þessa blaðs. Sýnir það ekki alllítið traust á honum, að hann, útlendingurinn, skuli hafa verið ráðinn til þessa starfa, enda ber og blaðið þess vott, að hann er góðum hæfileikum búinn. Er slíkt jafnan gleðiefni fyrir fósturjörð vora, er synir hennar geta fært öðrum þjóðum heim sanninn um það, að margt gott getur sprottið upp í moldarkofunum okkar íslenzku og allri fátæktinni.

Blaðið »Heimhug« er ritað á sveitamálinu norska, og hefir meðal annars á stefnuskrá sinni, að fræða menn um íslenzkar bókmentir, stjórnarfar og þjóðlíf. Hefir það þegar sýnt, að þetta er meira en orðin ein, því næstum í hverju blaði hefir verið eitthvað um Ísland, þýðingar úr íslenzkum ritum, greinar um íslenzk efni, fréttir frá Íslandi og ýmislegt fleira, mest eftir ritstjórann, en sumt eftir aðra Íslendinga, er í blaðið rita. Skulum vér sem dæmi nefna kvæðið »Heimhug« eftir ritstjórann, er lýsir tilfinningum hans og hugarþeli til Íslands mjög fagurlega, annað kvæði, sem heitir »Vonbrot« eftir annan Íslending í Noregi, lýsing á fjallferð eða göngum á Íslandi, íslenzk jarðarför, jólakveld á Íslandi, grein um Njál, sagnir um Jón biskup Vídalín (mestmegnis þýtt), fregnbréf frá Íslandi, um fólksfjölgun á Íslandi og manntal í íslenzkum kaupstöðum o. s. frv. Í jólanúmeri blaðsins, sem er skrautprentað og með mörgum myndum, er meðal annars mynd af íslenzkum kvennmanni í skautbúningi, af »álfakrossinum« (sbr. Eimr. IV) og af ritstjóra Eimreiðarinnar dr. Valtý Guðmundssyni ásamt langri grein um hann. Þar við bætist, að flestar þessar greinir eru vel ritaðar og sumar prýðilega. Að eins hefir ein óheppileg villa komist inn í frásögnina um Jón biskup Vídalín og fregnbréfið frá Íslandi (eftir »Kveldólf«) er mjög óheppilegt. Það er næstum eingöngu um ritsímamálið, en hefir lítið um það að segja nema tóma vitleysu, sem lapin er upp eftir »Dagskrá«. Það virðist nægilegt, að menn verða sér til skapraunar að sjá slíkt bull í íslenzku blaði, þó ekki sé farið að láta það flytja kellingar yfir í útlend blöð, þar sem það gæti unnið málinu ógagn, ef nokkur tæki mark á því.

Vér trúum ekki öðru en að mörgum Íslendingi mundi þykja gaman að lesa »Heimhug«, þar sem hann auk annars sinnir Íslandi af svo mikilli alúð og er ritaður á máli, sem er líkara íslenzku en nokkurt annað útlent mál. Það er líka hægt að veita sér þetta, því hver árgangur kostar ekki nema 2 krónur, og kemur þó blaðið út á hverjum laugardegi.

ÍSLENZK NÚTÍÐARSKÁLD, bókmentasagan eftir *J. C. Poestion*, sem getið var í Eimr. síðastliðið ár, hefir vakið mikla eftirtekt í útlöndum og mesti sægur af ritdómum um hana komið hingað og þangað. Skulum vér úr öllum þeim fjölda nefna eina tvo, er einna mest kveður að. Er annar þeirra í »Allgemeine Schweizer Zeitung« 21. ág. 1898, og mun vera eftir prófessor *A. Heusler*, sem ferðaðist á Íslandi hérna um árið. Sver ritdómurinn sig greinilega í hans ætt, svo vel er hann ritaður og af svo mikilli þekkingu. Hinn ritdómurinn er í »Wiener Abendpost« 19. okt. 1898, eftir *Bruno Walden*, nafnkunnan bókmentafræðing í Austurríki. Hælir hann íslenzku skáldunum mikið, og segir að bók Poestions hafi ómótmælanlega unnið þeim heiðarsæti í »myndasal heimsbókmentanna« og þá um leið vakið virðing og vinarþel til hinna vel gefnu eyjarbúa (Íslendinga) hjá hinni fjarlægu frændþjóð þeirra (Þjóðverjum).

RITDÓMAR UM ÍSLENZK RIT. Í »Jahresbericht über die Erscheinungen auf dem Gebiete der Germanischen Philologie« fyrir 1897 eru ritdómar um hina dansk-íslenzku orðabók Jónasar Jónassonar og hina ensk-íslenzku orðabók G. T. Zoega, og vel yfir þeim látið. Þar er og ritdómur um Eimreiðina III og annar sérstakur um bréf Harboes frá Íslandi, sem vóru í þeim árgangi hennar. Um Eimreiðina segir þar svo: »Þetta nýja tímarit er svo auðugt að efni (og ritað af hinum helztu íslenzku höfundum), að sjálfsagt er að mæla með því við alla, sem að einhverju leyti hafa hug á að kynnast Íslandi eða íslenzkum fræðum. Í því eru pólitiskar ritgerðir, bókmentaritgerðir, ritgerðir sögulegs efnis, skáldskapur í bundnu og óbundnu máli, þýðingar á útlendum ritgerðum og ritdómar og smágreinar um nýjar bækur. Vér verðum eindregið að ráða fræðafélögum vorum og bókaútgefendum, að senda ritstjóranum, háskólakennara, dr. Valtý Guðmundssyni, þær bækur, er að einhverju leyti snerta Ísland eða íslenzk efni, og mun hann sjá um, að um þær verði kveðinn upp óhlutdrægur dómur.« — Sá, er þetta hefir ritað, virðist ekki hafa verið í neinum vafa um, hvert erindi Eimreiðin teldi sig eiga til lesenda sinna.

SKEMTIFERÐALEIÐIR Á ÍSLANDI, yfir Kjalveg frá Sauðárkrók til Reykjavíkur heitir bók eftir höfuðsmann *Daniel Bruun*, sem hið íslenzka Ferðamannafélag hefir gefið út á dönsku (»Turistrouter paa Island, Tværs over Kølen fra Sødekrog til Reykjavík« Khöfn 1899). Er sú bók lipurt og vel rituð og í henni góð lýsing á þessari leið og því, sem á henni er að sjá nýstárlegt fyrir útlenda ferðamenn. Í henni er og fjöldi af góðum myndum og hinn ytri búningur bókarinnar hinn bezti.

V. G.

# Hið sameinaða eimskipafjelag.

## Áætlun um strandferðir á Íslandi 1899.

---

### *I. Austur um land:*

| | 1 | | 2 | | 3 | | 4 | | 5 | | 6 | | 7 | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B |
| | apr. | maí | maí | júní | júní | júlí | júlí | ág. | ág. | ág. | sept. | sept. | okt. | okt. |
| **Reykjavík** .. | 14 | .. | 16 | .. | 11 | .. | 10 | .. | 7 | .. | 4 | .. | 3 | .. |
| ykjavík...... | .. | 10 | .. | 6 | .. | 5 | .. | 3 | .. | 31 | .. | 29 | .. | 28 |
| eflavík ..... | 14 | .. | 16 | .. | 11 | 5 | 10 | 3 | 7 | 31 | 4 | 28 | .. | 25 |
| estm.eyjum . | 14 | 8 | 16 | 4 | 11 | 4 | 10 | 2 | 7 | 30 | 4 | 28 | 3 | 24 |
| ík ......... | .. | .. | .. | .. | 12 | 4 | 11 | 2 | 8 | 30 | .. | .. | .. | .. |
| lornafirði ... | 15 | 7 | 17 | 3 | 12 | 3 | 11 | 1 | 8 | 29 | 5 | 27 | .. | .. |
| )júpavog .... | 16 | 7 | 18 | 3 | 13 | 3 | 12 | 1 | 9 | 29 | 6 | 27 | 5 | 23 |
| | | | | | | | | júlí | | | | | | |
| reiðdalsvík .. | 16 | 6 | 18 | 2 | 13 | 2 | 12 | 31 | 9 | 28 | 6 | 26 | 5 | 22 |
| töðvarfirði .. | .. | .. | .. | .. | 13 | 2 | 12 | 31 | 9 | 28 | .. | .. | .. | .. |
| áskrúðsfirði . | 17 | 6 | 19 | 2 | 14 | 2 | 13 | 31 | 10 | 28 | 7 | 26 | 6 | 22 |
| levðarfirði ... | 17 | 5 | 19 | 2 | 14 | 1 | 13 | 30 | 10 | 27 | 7 | 25 | 6 | 21 |
| skifirði ..... | 18 | 5 | 19 | 1 | 14 | 1 | 14 | 30 | 11 | 27 | 8 | 25 | 7 | 21 |
| | | | | | | júní | | | | | | | | |
| orðfirði .... | 18 | 4 | 20 | 1 | 15 | 30 | 14 | 29 | 11 | 26 | 8 | 24 | 7 | 20 |
| ljóafirði..... | 18 | 4 | 20 | 1 | 15 | 30 | 14 | 29 | 11 | 26 | 8 | 24 | 7 | 20 |
| eyðisfirði ... | 20 | 4 | 22 | 1 | 17 | 30 | 16 | 29 | 13 | 26 | 10 | 24 | 10 | 20 |
| oðmundarf.. | .. | .. | .. | .. | 17 | 28 | .. | 27 | 13 | .. | .. | .. | .. | .. |
| | | | | maí | | | | | | | | | | |
| orgarfirði ... | 20 | 2 | 22 | 30 | 17 | 28 | 16 | 27 | 13 | 24 | 10 | 21 | 10 | 18 |
| opnafirði ... | 21 | 2 | 22 | 30 | 18 | 28 | 16 | 27 | 13 | 24 | 10 | 21 | 10 | 18 |
| akkafirði .... | .. | .. | 22 | 30 | 18 | 28 | .. | .. | 14 | 23 | 10 | 20 | .. | .. |
| órshöfn..... | .. | .. | 23 | 29 | 18 | 27 | 17 | 26 | 14 | 23 | 11 | .. | .. | .. |
| laufarhöfn... | .. | .. | 23 | 29 | 19 | 27 | 17 | 26 | 14 | 23 | 11 | .. | .. | .. |
| ópaskeri .... | .. | 1 | 23 | 29 | 19 | .. | .. | 25 | 15 | 22 | 11 | .. | .. | .. |
| | | apr. | | | | | | | | | | | | |
| lúsavík ..... | 22 | 30 | 24 | 28 | 20 | 27 | 18 | 25 | 15 | 22 | 12 | 20 | 11 | 17 |
| latey ....... | .. | .. | 24 | .. | 20 | 26 | 18 | 25 | 15 | 21 | .. | .. | .. | .. |
| rímsey ..... | .. | .. | .. | .. | 20 | 26 | 18 | 24 | .. | .. | .. | .. | .. | .. |
| renivík ..... | .. | .. | 24 | 28 | 21 | 26 | 18 | 24 | 16 | 21 | 12 | 19 | 11 | .. |
| valbarðseyri . | .. | .. | .. | .. | 21 | 26 | 18 | 24 | 16 | 21 | 12 | 19 | .. | .. |
| ureyri ...... | 24 | .. | 25 | .. | 22 | .. | 20 | .. | 18 | .. | 14 | .. | 13 | .. |
| **Akureyri** .... | .. | 30 | .. | 28 | .. | 26 | .. | 24 | .. | 21 | .. | 19 | .. | 17 |

Athugasemd um **strandferðirnar**. Á Búðir, Ólafsvík, Blönduós, Haganesvík, nsey, Kópasker, Hornafjörð og Vík koma skipin því að eins, að því verði við ið. — Frá Reykjavík og Akureyri fara strandskipin jafnan kl. 9 árdegis. Á öðrum m er sá dagur tiltekinn í áætluninni, er skipin megi fara í fyrsta lagi, en félagið ber enga ð á, þótt þau kunni að tefjast svo, að síðar verði farið. Viðstaðan á millistöðvunum r svo stutt, semt unt er.

# Áætlun um eimskipaferðir 1899 milli Kaupmannahafnar, Leith, Færeyja og Íslands.

*Frá Kaupmannahöfn til Íslands*

| | 1. Laura | 2. Vesta | 3. Laura | 4. Laura | 5. Thyra | 6. Vesta | 7. Laura | 8. Thyra | 9. Botnia | 10. Vesta | 11. Laura | 12. Botnia | 13. Laura | 14. Vesta | 15. Thyra | 16. Laura | 17. Vesta | 18. Laura |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| **frá Kaupmhöfn** | 15 jan. | 1 marz | 5 marz | 15 apríl | 25 apríl | 14 maí | 28 maí | 11 júní | 20 júní | 1 júlí | 9 júlí | 30 júlí | 13 ág. | 8 sept. | 15 sept. | 26 sept. | 13 okt. | 15 nóv. |
| » Leith | 19 — | 5 — | 9 — | 19 — | 29 — | 18 — | 1 júní | 15 — | 24 — | 5 — | 13 — | 3 ág. | 17 — | 12 — | 19 — | 30 — | 17 — | 19 — |
| » Trangisvaag | | | 11 — | 21 — | | 20 — | | 17 — | | | 15 — | | 19 — | | | 2 okt. | | 21 — |
| » Thorshavn | 22 jan. | | 12 — | 22 — | | 21 — | | 17 — | 26 júní | 7 júlí | 16 — | 5 ág. | 20 — | 14 sept. | | 3 — | 19 okt. | 22 — |
| » Klaksvig | 23 — | | 13 — | 23 — | | 22 — | | 18 | 27 — | | 16 — | 6 —* | 21 — | | | 4 — | | 23 — |
| » Berufirði | | 9 marz | | | | | | | | 9 júlí | | | | | | | | |
| » Fáskrúðsfirði | | 9 — | | | | 24 maí | | | | 10 — | | | | | | | 22 okt. | |
| » Eskifirði | | 10 — | | | | 24 — | | | | 11 — | | 14 ág. | | 16 sept. | | | 23 — | |
| » Norðfirði | | 10 — | | | | | | 20 júní | | 11 — | | | | | | | 23 — | |
| » Seyðisfirði | | 12 — | | | | 25 maí | | 21 — | | 12 — | | 15 ág. | | 17 sept. | 24 | | 24 — | |
| » Vopnafirði | | 13 — | | | | | | 21 — | | 13 — | | | | | | | 24 — | |
| » Húsavík | | 14 — | | | | | | 22 — | | 14 — | | 16 ág. | | | | | 25 — | |
| » Akureyri | | 17 — | | | | 27 maí | | 24 — | | 16 — | | 18 — | | | 26 | | 27 — | |
| » Siglufirði | | 17 — | | | | | | | | 16 — | | | | | | | 27 — | |
| » Sauðárkrók | | 18 — | | | | 28 maí | | 24 júní | | 17 — | | 19 ág. | | | | | 28 — | |
| » Skagaströnd | | 19 — | | | | | | 25 — | | 17 — | | 19 — | | | | | 28 — | |
| » Blönduós | | 19 — | | | | | | | | 18 — | | | | | 27 sept. | | | |
| » Borðeyri | | | | | | | | | | 19 — | | | | | | | | |
| » Reykjarfirði | | 20 marz | | | | | | | | 20 — | | | | | | | 29 okt. | |
| » Ísafirði | | 22 — | | | | 30 maí | | 26 júní | | 21 — | | 21 ág. | | | 29 sept. | | 31 — | |
| » Önundarfirði | | 23 — | | | | | | | | 21 — | | | | | | | | |
| » Dýrafirði | | 23 — | | | | 30 maí | | | | 22 — | | 21 ág. | | | | | 31 okt. | |
| » Bíldudal | | 24 — | | | | | | | | 22 — | | | | | | | | |
| » Patreksfirði | | 25 — | | | | | | | | 23 — | | | | | | | | |
| » Flatey | | 26 — | | | | | | 27 júní | | 23 — | | | | | | | | |
| » Stykkishólmi | | 27 — | | | | 31 maí | | 27 — | | 24 — | | 22 ág. | | | 30 sept. | | | |
| **í Reykjavík** | 28 jan. | 29 — | 17 marz | 26 apríl | 4 maí | 2 júní | 5 júní | 28 — | 30 júní | 25 — | 20 júlí | 24 — | 24 ág. | 20 sept. | 1 okt. | 8 okt. | 2 nóv. | 27 nóv. |
| **Til Vesturlandsins:** | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| **frá Reykjavík** | 1 febr. | | | | 6 maí | | 9 júní | | 2 júlí | | | | | | | 12 okt. | | |
| » **Stykkishólmi** | | | | | 7 — | | 10 — | | | | | | | | | 13 | | |
| » **Flatey** | | | | | 7 — | | 10 — | | | | | | | | | 14 — | | |
| » Patreksfirði | 2 febr. | | | | 8 | | 11 | | | | | | | | | 15 | | |
| » Bíldudal | 3 | | | | 9 | | 11 | | 4 júlí | | | | | | | 16 | | |
| » Dýrafirði | [illegible] | | | | 9 | | [illegible] | | | | | | | | | [illegible] | | |
| » Önundarfirði | [illegible] | | | | [illegible] | | [illegible] | | | | | | | | | [illegible] | | |

| | 1. | 2. | 3. | 4. | 5. | 6. | 7. | 8. | 9. | 10. | 11. | 12. | 13. | 14. | 15. | 16. | 17. | 18. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | **Laura** | **Vesta** | **Laura** | **Laura** | **Thyra** | **Vesta** | **Laura** | **Thyra** | **Botnia** | **Vesta** | **Laura** | **Botnia** | **Laura** | **Vesta** | **Thyra** | **Laura** | **Vesta** | **Laura** |
| **Frá Vesturlandinu:** | | | | | | | | | | | | | | | | 21 okt. | | |
| **frá Ísafirði** | 7 febr. | | | | 13 maí | | 14 júní | | 7 júlí | | | | | | | | | |
| » Dýrafirði | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| » Bíldudal | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| » Patreksfirði | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| » Flatey | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| » Stykkishólmi | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| **Reykjavík** | 9 febr. | | | | 15 maí | | 16 júní | | 9 júlí | | | | | | | 23 okt. | | |
| **frá Reykjavík** | 12 febr. | 4 apríl | 23 marz | 1 maí | 19 maí | 7 júní | 19 júní | 2 júlí | 12 júlí | 29 júlí | 26 júlí | 28 ág. | 29 ág | 24 sept. | 9 okt | 26 okt. | 9 nóv. | 4 des |
| » Stykkishólmi | | 5 — | | | | | | | | 30 — | | | 30 — | | | | | |
| » Flatey | | 5 — | | | | | | | | 30 — | | | 30 — | | | | | |
| » Patreksfirði | | 6 — | | | | | | | | 31 — | | | | | | | | |
| » Bíldudal | | 6 — | | | | | | | | 31 — | | | | | | | | |
| » Dýrafirði | | 7 — | | | | | | | | 1 ág. | | | 31 ág. | | | | | |
| » Önundarfirði | | 7 — | | | | | | | | 1 — | | | | | | | | |
| » Ísafirði | | 9 — | | | | 9 júní | | 4 júlí | | 3 — | | | 1 sept. | | 12 okt. | | | |
| » Reykjarfirði | | | | | | | | | | 3 — | | | | | 13 — | | | |
| » Borðeyri | | | | | | | | | | 4 — | | | | | | | | |
| » Blönduós | | | | | | | | 5 júlí | | 5 — | | | | | 14 okt. | | | |
| » Skagaströnd | | 10 apríl | | | | | | | | 5 — | | | 1 sept. | | 15 — | | | |
| » Sauðárkrók | | 11 — | | | | 10 — | | 6 júlí | | 6 — | | | 2 — | | 16 — | | | |
| » Siglufirði | | 12 — | | | | | | 6 — | | 7 — | | | | | 17 — | | | |
| » Akureyri | | 14 — | | | | 13 júní | | 7 — | | 9 — | | | 4 sept. | | 20 — | | | |
| » Húsavík | | 14 — | | | | | | | | 9 — | | | 4 — | | 20 — | | | |
| » Vopnafirði | | 15 — | | | | 14 júní | | 8 júlí | | 10 — | | | | | 21 — | | | |
| » Seyðisfirði | | 17 — | | | 22 maí | 15 — | | 9 — | | 11 — | | | 5 sept. | | 23 — | | | |
| » Norðfirði | | 17 — | | | | | | | | 11 — | | | | | 23 — | | | |
| » Eskifirði | | 17 — | | | 23 maí | | | 9 júlí | | 12 — | | | 5 sept. | | 24 — | | | |
| » Fáskrúðsfirði | | 18 — | | | | | | | | 12 — | | | | | 24 — | | | |
| » Berufirði | | 18 — | | | | 15 júní | | | | 12 — | | | | | 25 — | | | |
| » Klaksvig | 15 febr. | | 26 marz | 4 maí | 25 maí | | 22 júní | | 15 júlí | | 29 júlí | | 7 sept. | 27 sept. | | 29 okt. | 12 nóv. | 7 des |
| » Thorshavn | 16 — | 20 apríl | 27 — | 4 — | 26 — | | 22 — | | 16 — | 14 ág. | 29 — | | 8 — | 27 — | | 30 — | 13 — | 8 — |
| » Trangisvaag | | | 27 — | 5 — | | | 23 — | | | | 30 — | | | | | | 14 — | 9 — |
| » Leith | 19 febr. | 23 apríl | 30 — | 8 — | 29 maí | 19 júní | 26 — | 13 júlí | 19 júlí | 17 ág. | 2 ág. | 2 sept. | 11 sept. | 30 sept. | 30 okt. | 2 nóv. | 17 — | 12 — |
| **í Kaupmhöfn** | 24 — | 28 — | 4 apríl | 12 — | 3 júní | 23 — | 30 — | 18 — | 23 — | 22 ág. | 6 — | 6 — | 15 — | 5 okt. | 4 nóv. | 6 — | 21 — | 18 — |

* þaðan beina leið til Reykjavíkur, kemur þangað 9. ág., fer þaðan aftur 12. ág. suður um land til Eskifjarðar.

# Hið sameinaða eimskipafjelag.

## Áætlun um strandferðir á Íslandi 1899.

---

*II. Vestur um land:*

| | 1 | | 2 | | 3 | | 4 | | 5 | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B | A |
| | apr. | maí | maí | júní | júní | júlí | júlí | ág. | ág. | sept. | sept |
| **Frá Reykjavík** .. | 16 | .. | 16 | .. | 11 | .. | 21 | .. | 26 | .. | 26 |
| í Reykjavík ..... | .. | 11 | .. | 6 | .. | 15 | .. | 19 | .. | 20 | .. |
| frá Akranesi .... | .. | .. | 16 | .. | 11 | 12 | 21 | 17 | .. | 18 | .. |
| — Búðum ..... | .. | .. | 16 | .. | 11 | 11 | 21 | 16 | .. | .. | .. |
| — Ólafsvík .... | 16 | 8 | 17 | 4 | 12 | 11 | 22 | 16 | 26 | 17 | 27 |
| — Grundarfirði. | .. | .. | .. | .. | 12 | 11 | 22 | 16 | .. | .. | .. |
| — Stykkishólmi | 17 | 8 | 17 | 4 | 12 | 11 | 22 | 16 | 27 | 17 | 27 |
| — Hvammsfirði | .. | .. | 18 | .. | .. | 10 | 23 | 15 | .. | .. | .. |
| — Skarðstöð ... | .. | .. | .. | .. | 13 | 9 | 23 | 14 | .. | .. | .. |
| — Flatey ...... | 17 | 7 | 18 | 3 | 13 | 9 | 23 | 13 | 27 | 16 | 28 |
| — Patreksfirði .. | 18 | 6 | 19 | 3 | 14 | 9 | 24 | 13 | 28 | 15 | 28 |
| — Tálknafirði .. | .. | .. | .. | .. | 14 | 8 | 24 | 12 | .. | 15 | .. |
| — Bíldudal .... | 18 | 6 | 19 | 3 | 15 | 8 | 25 | 12 | 29 | 15 | 29 |
| — Dýrafirði .... | 18 | 5 | 19 | 2 | 15 | 7 | 25 | 11 | 29 | 14 | 30 |
| — Önundarfirði | 18 | 5 | 19 | 2 | 15 | 7 | 25 | 11 | 29 | 14 | 30 |
| — Súgandafirði. | .. | .. | .. | .. | 16 | 7 | 25 | 11 | .. | .. | .. |
| — Ísafirði ...... | 20 | 5 | 20 | 2 | 18 | 7 | 27 | 11 | 30 | 14 | okt. 2 |
| — Aðalvík ..... | .. | .. | 20 | 1 | 18 | 5 | 27 | 10 | .. | .. | .. |
| — Reykjarfirði . | 20 | 3 | 20 | 1 | 18 | 5 | 27 | 9 | 31 | 13 | 3 |
| — Steingrímsfirði | 21 | 3 | 21 | maí 31 | 18 | 4 | 28 | 9 | 31 | 12 | [illegible] |
| — Bitrufirði .... | .. | .. | .. | .. | 19 | 4 | 28 | 9 | 31 | 12 | .. |
| — Borðeyri .... | 23 | 3 | 22 | 31 | 21 | 4 | 30 | 9 | sept. 2 | 12 | 5 |
| — Hvammstanga | .. | .. | .. | .. | 21 | 2 | 30 | 7 | .. | .. | .. |
| — Blönduós ... | 23 | 1 | 22 | 30 | 21 | 2 | 30 | 7 | 2 | 10 | .. |
| — Skagaströnd . | 23 | apr. 30 | 22 | 29 | 21 | 2 | 30 | 7 | 2 | 10 | [illegible] |
| — Sauðárkrók .. | 24 | 30 | 23 | 29 | 22 | 2 | 31 | 6 | 3 | 9 | 6 |
| — Kolkuós .... | .. | .. | .. | .. | 22 | 1 | 31 | 6 | 3 | .. | .. |
| — Hofsós ..... | 24 | 30 | 23 | 29 | 22 | 1 | 31 | 6 | 3 | 9 | .. |
| — Haganesvík .. | .. | .. | .. | 28 | 22 | 1 | 31 | .. | .. | .. | .. |
| — Siglufirði .... | 24 | 29 | 23 | 28 | 23 | júní 30 | ág. 1 | 5 | 4 | 9 | 7 |
| — Dalvík ...... | 24 | 29 | 24 | 28 | 23 | 30 | 1 | 5 | 4 | 8 | 7 |
| — Hjalteyri .... | 25 | 29 | 24 | 28 | 23 | 30 | 1 | 5 | 4 | 8 | [illegible] |
| á Akureyri ..... | 25 | .. | 26 | .. | 25 | .. | 3 | .. | 6 | .. | 9 |
| **frá Akureyri** ... | .. | 29 | .. | 28 | .. | 30 | .. | 5 | .. | 8 | .. |

Athugasemd um **ferðir milli landa.** Í Vestmannaeyjum verður komið við í ferð suður um land, bæði út og utan, svo framarlega sem því verður við komið. Eptir skipanna til Reykjavíkur sunnan um land verður einnig komið við í Hafnarfirði (inn- ferðinni) þegar nægilegan farm er að flytja þangað. Þegar sömu skilyrði eru fyrir hendi, í þessum ferðum komið við á Akranesi, ef því verður við komið og full ástæða þess. — Frá Kaupmannahöfn fara skipin jafnan kl. 9 árdegis og frá Reykjavík kl. Á millistöðvum er fyrsti fardagur tiltekinn, en farþegar mega búast við, að síðar kunni farið. — Fargjald milli Íslands og útlanda er í 1. farrými 90 kr. (báðar leiðir 160 kr. milli Skotlands og Íslands 144 kr.) og í 2. farrými 60 kr. (báðar leiðir 100 kr.). Fyrir greiðist á dag í 1. farrými 4 kr. og í öðru farrými 2 kr. Hálfu minna fyrir börn.

## Skilvindan »Alfa Colibri« með Sveif

r bezt af öllum handskilvindum, hefir hlotið margfalt, fleiri verðlaun en nokkur önnur samskonar vél og ætið á sýningum verið dæmd bezt, einast á Björgvinjarsýningunni næstl. sumar.

Einn af merkustu Íslendingum skrifar þannig:

»Mjólkurskilvindan »Alfa Colibri« hefir um tíma verið notuð á heimili mínu g reynst mjög vel. Hún gefur betra og meira smjör og sparar vinnu, og mun vi að líkindum borga sig á 1—2 árum, þar sem nokkur talsverð mjólk er.

Ég tel því vel þessa mjög þarflega eign fyrir hvern þann, sem hefir efni l að kaupa hana.

Grenjaðarstað 19. des. 1898. *B. Kristjánsson.*«

Mjólkurskilvindan »Alfa Colibri« með sveif kostar 150 krónur og est við allar verzlanir Ørum & Wulffs, við Grams-verzlanir og hjá aupmönnunum: Birni Kristjánssyni í Reykjavík, Skúla Thóroddsen á safirði, Kristjáni Gíslasyni á Sauðárkrók, Halldóri Gunnlögssyni á Oddeyri, tefáni Stefánssyni á Seyðisfirði og Friðrik Möller á Eskifirði og hafa ngir aðrir en þeir, eða þeir, sem einkasalinn síðar kann að fela það, eyfi til að selja þessar skilvindur á Íslandi. Leiðarvísir á íslenzku er endur öllum hreppsnefndum á Íslandi.

Einkasölu til Íslands hefir

**Jakob Gunnlögsson,** *Niels Juelsgade 14, Kjøbenhavn K.*

---

## „Fineste skandinavisk Exportkaffe Surrogat"

r hinn ágætasti og ódýrasti kaffibætir, sem nú er í verzlaninni.

*Fæst hjá kaupmönnum á Íslandi.*

**F. Hjorth & Co.** Kjøbenhavn K.

---

**Hið bezta sjókólaði** er frá verksmiðjunni »**Sirius**« í fríhöfninni í Khöfn. Það er hið drýgsta g næringarmesta og inniheldur meira af kakaó en nokkur önnur sjókólaðitegund.

---

## Kjær & Sommerfeldt,

**Kaupmannahöfn,**

(verzlun stofnsett 1875)

æla með sínum miklu birgðum af *ómenguðum þrúguvínum, nlegi (likør)* og alls konar vínföngum, *vindlum, reyktóbaki* og *vindngum*, sem alt er *framúrskarandi* að gæðum og með *lægsta* verði.

Af vörum þessum er og jafnan forði hjá herra kaupm. *eingrími Johnsen* í *Reykjavík.*

---

**Til heimalitunar** ráðum vér til að nota vora verðlaunuðu pakkaliti, er taka öllum öðrum litum fram bæði að gæðum g litfegurð. Í stað hellulits noti menn »kastorlit« vorn, sem er miklu fegurri g haldbetri en nokkur annar svartur litur. Leiðarvísir á íslenzku fylgir hverjum kka. Litirnir fást hjá kaupmönnum á Íslandi.

**Buchs Farvefabrik,** Ny Vestergades Forlængelse. Kjøbenh. K.

---

## Íslenzk umboðsverzlun

lur alls konar íslenzkar vörur á mörkuðum erlendis, kaupir útlendar rur og sendir um alt land, einungis fyrir kaupmenn.

**Jakob Gunnlögsson,** *Niels Juelsgade 14, Kjøbenhavn K.*

---

## Bindindismannadrykkurinn **Chika**

ljúffengur og fínn svaladrykkur. »Chika« er ekki meðal þeirra drykkja, sem eðlimum af stórstúku Danmerkur af N. I. O. G. T. er bannað að drekka.

**Martin Jensen,** Kjøbenhavn.

Umboðsmaður fyrir Ísland: **F. Hjorth & Co.**

# EFNISYFIRLIT.

---



---

**Afgreiðslu og reikninga** Eimreiðarinnar, útsending og innheimtu á andvirði hennar hefir *nú* á hendi ritstjóri hennar dr. **Valtýr Guðmundsson** *(Kingosgade 15, København V)*, og eru því útsölumenn og aðrir viðskiftamenn ritsins beðnir að snúa sér framvegis **til hans** með **pantanir** á því og **borgun** fyrir það og alt, er lýtur að afgreiðslu þess og reikningsskiftum.

**Nýir kaupendur** að 5. árg. Eimreiðarinnar geta fengið 1. og 4. árg. hennar fyrir 2 kr. hvern, en 2. og 3. fyrir 1 kr. hvern, eða alt, sem út er komið af henni, fyrir einar 6 kr.

**Eimreiðin** verður í ár jafnstór að arkatölu og að undanförnu, en verður af sérstökum ástæðum *í þetta sinn* skift niður í 2 hefti jafnstór og kemur 1. heftið út í *marz*, en 2. í *júní*. Verð hvers heftis er 1 kr. 50 au. (í Am. 60 c.).

EIMREIÐIN hefir breytt um stafsetning og fylgir nú stafsetning »Blaðamannafélagsins« í Reykjavík.

---

# EIMREIÐIN.



RITSTJÓRI:

DR. VALTÝR GUÐMUNDSSON.

EIGENDUR: NOKKRIR ÍSLENDINGAR.

V. ÁR. 2. HEFTI.

KAUPMANNAHÖFN.
PRENTAÐ HJÁ NIELSEN & LYDICHE.
1899.

# Jens Hansen,

Vestergade 15, Kjøbenhavn K.

*Stærstu og ódýrustu birgðir í Kaupmhöfn af steypum...*

## við hæfi Íslendinga.







Eldavél á 20 kr.

Sérstaklega mæli jeg með *ofnum* með magazín brenslu, með eldunarhólfi og hristirist eða án þeirra, á **14 kr.** og þar yfir, er fást í meira en 100 mismunandi stærðum. Ennfremur má nefna eldavélar með steikaraofni og vatnskatli, með 3—5 mjög stórum suðuholum, á **20 kr.** og þar yfir; þær má og fá þannig lagaðar, að þær með ... niður lausar á mitt gólf með eða án múrhleðslu. Skipseldavélar í þilskip. ... ofna og eldakompuvélar án múrhleðslu í skip og fiskibáta má fá með eldunarh... og magazínbrenslu. Ennfremur birgðir af steinolíuof...







úr járni, kopar og messing, af nýjustu og beztu gerð, sem til er. *Ofnpípur* úr ... steypujárni af ýmsri stærð. Járnglugga í húsþök og byggingar af alls konar ... Galvaniseraðar fötur og þvottabalar. Gleraðar og ósmeltar steikarpönnur ... pottar. Gleraðar járnkaffikönnur, tepottar, diskar, bollar o. fl.

Yfir alt þetta er til verðskrá með myndum, sem send verður ókeypis ... um þeim, sem lætur mig vita nafn sitt og heimili.

# Landnámssöngur Íslands.

*p cresc.* *f*

Heil-ög sjón: hlö við Frón; him-inn jörð og flæð-i

*p cresc.* *f*

Heil-ög sjón: hló við Frón; him-inn jörð og flæð-i

*p cresc.* *f*

Heil-ög sjón: hló við Frón; jörð og flæð-i

*p cresc.* *f*

Heil-ög sjón; hló við Frón; him-inn jörð og flæð-i

*p cresc.* *f*

*dim. e poco a poco riten.* *p*

flutt-u lands-ins föð-ur heill-a kvæð-i.

*dim. e poco a poco riten.* *p*

flutt-u lands-ins föð-ur heill-a kvæð-i.

*dim. e poco a poco riten.* *p*

flutt-u lands-ins föð-ur heill-a kvæð-i.

*dim. e poco a poco riten.* *p*

flutt-u lands-ins föð-ur heill-a kvæð-i.

*dim. e poco a poco riten.* *p*

cresc. ten. ff

Dís - a fjöld hylt - u höld, heill við kyn hans

cresc. ten. ff

Dís - a fjöld hylt - u höld, heill við kyn hans

cresc. ten. ff

Dis - a fjöld hylt - u höld, hylt - u höld, heill við kyn hans

cresc. ten. ff

Dis - a fjöld hylt - u höld, heill við kyn hans

ten.

cresc. ff

p pp

bund - u; bless - ast Ing - ólfs bygð frá þeirr - i stund - u.

p pp

bund - u; bless - ast Ing - ólfs bygð frá þeirr - i stund - u.

p pp

bund - u; bless - ast Ing - ólfs bygð frá þeirr - i stund - u.

p pp

bund - u; bless - ast Ing - ólfs bygð frá þeirr - i stund - u.

p pp

Lagið eftir
SV. SVEINBJØRNSSON.

Kvæðið eftir
MATTH. JOCHUMSSON

# Vor.

Brot úr sögu eftir *Guðmund Friðjónsson.*

---

I.

Vorþráin hefir búið í mér langa hríð og vonað eftir fullnæg-ngu. Hún hefir hagað sér eins og leiðslublandin óró og skimað allar áttir, ekki einungis austur móti dagrenning og suður undir ıádegissól, heldur einnig vestur í fjallgarðinn, sem ber við himin. Hún befir jafnvel horft norður í Íshafið.

Og *þar* gat hún þó sízt búist við, að sjá von sína rætast — ›ar sem hafáttin austræna hefir verið að verki sínu liðlangan vetur-nn og hlaðið margfaldan varnargarð móti sunnanvindi og sól, alt .ustan frá Svíþjóð hinni köldu og vestur að Hellulandi.

Veturinn var orðinn svo langur — óttalega langur. Þó var ıann styttri en hann hefir stundum verið, hinn *eiginlegi* vetur. :n *hinn* — hann verður ekki mældur eða veginn.

Hann hefir lagt undir sig flesta *sólmánuði* og hernumið margar *ımartíðir* og *vornætur* æfi minnar.

Mér hefir aldrei leiðst eins mikið eftir vortíðinni sem nú, og efi ég þó oft verið langeygur eftir henni.

Loksins er hún nú komin.

Hamingjunni sé lof!

Ég lofa hamingjuna fyrir komu vordísarinnar; og þó veit ég kki, hvort mér stendur nokkuð gott af henni.

En hún er ljómandi fögur, skemtir auganu og hefir frítt föru-eyti.

Ég sé hana glögt. Merki hennar ber við himin og ljómar í sól-ıininu. Það er gert úr dýrindis guðvefi. Samkembingur hinna sjö :gurstu lita er í gunnfánanum og gullbryddur kögur á jöðrunum.

*

Vordís!

Ég hefði kosið að faðma föður þinn, Guð, fyrir framleiðslu ína Ég vildi kyssa móður þína, Sólina, fyrir það, að hún fæddi ig og laugaði í himinvökvanum. — En ég næ ekki til þeirra.

Vorsól!

Ég vil taka þig í hendur mínar, setja þig upp á skrifborðið ıitt og leika mér að þér — snara þér á rönd eins og skerborði ; velta þér eins og gullhring.

Vordís!

Ég vil taka þig í fang mér og bera þig inn í rekkju mína. Ég skyldi ganga úr rúmi fyrir þér, ef þess gerðist þörf og ef ég mætti þá eiga von á, að ég fengi að leggja mig í volga holu þína, þegar haustar og skyggir. Þá myndi mér hlýna og birta fyrir augum, og þokuhillingarnar hverfa.

En því miður get ég ekki náð þeim.

Vorgyðjan vill ekki koma til mín. Ég sé hana aðeins álengdar eins og eyðimerkurhilling.

Hún hefir numið sér landið svo vítt, sem vötn falla til fjarðarins, og merkt á viðum að fornum sið.

Allar brekkur eru kvikar af lindum og lækjum, sem stikla niður milli steina og þúfna, hvíslast á og buldra. Rindarnir blána dag frá degi og auka landnám sitt milli stuttbreiðra fanna og langleitra skafla.

Þegar góuhríðarnar gengu í garð, jöfnuðu þær vandlega yfir ójöfnur landsins og misfellur, — gerðu plógför eftir hlíðunum endilöngum og þúfnasléttu á þúsund dagslátta landflæminu milli fjallsins og fjörunnar.

Nú þegar vordísin kom og leit yfir þessa fljótunnu jarðabót, reyndist hún ekki til frambúðar, eða verðlauna verð. Þegar merkisberar hennar þjöppuðu á erjur og akurreinar norðanstormsins, komu gallarnir í ljós. Lækirnir grófu sundur beðin í hlíðunum, þvers um og skáreitis, og hvíta sléttan á láglendinu varð gárótt og þýfð eins og báruhnitaður, brimúfinn flói.

Óteljandi þúfnakollar láta á sér bóla upp úr snæbreiðunni, sem mist hefir mjallhvítuna úr yfirbragðinu og fengið gráýrðan fölva í staðinn.

Leysingin smýgur gegn um útileitar fannir og veðurbitna klaka, sem meyrna og kólfast sundur fyrir sólargeislum og þeyvindi. Aurgar eyrar teygja sig niður og breiðast út í niðurbreiðum, uppmjóum spildum, þar sem neðsta brekkan og jafnsléttan mætast.

Ísinn á *ánni* er farinn að bunga upp í miðjunni og líkist hann að því leyti líkkistuloki. En við löndin er hann botnfastur, brasaður og negldur niður með grunnstöngli.

En yfir endilangri sveitinni liggur ljósblá hitamóða, sem dregur brosljóma í ásýnd hennar og nemur burt örin og ellihrukkurnar.

Fjarlægustu fjöllin sýnast fegurst. — Helgidómur fjarlægðarinnar býr þau í gull og skart.

*

Uppi í marbláma himinsins er dökkur díll, sem bærist, en heldur þó kyrru fyrir. Hann lætur til sín heyra. Röddin og reglubundnu hreyfingarnar segja til og sýna, að þetta er lóan.

»Blessuð lóan«. Hún er komin fyrir löngu; sást mörgum dögum áður en til hennar heyrðist. Hún var svo lúin eftir ferðalagið, að hún þurfti að hvíla sig — vængi sína og rödd. Og svo voru þá viðtökurnar hérna norðurfrá ekki betri en svo, að frosthríð og stormur földu fyrir henni sólina svo dögum skifti, og bjuggu henni flatsæng á frosnu og snædrifnu hallargólfi stólkonungsins norðlæga.

En nú er hún búin að ná sér og jafna sig eftir ferðavolkið og misindismóttökurnar. Sólin baðar hana í laug sinni og vorblærinn — andardráttur gyðjunnar suðrænu hefir stilt og mýkt raddstrengi hennar, svo þeir hafa aldrei fyr náð fegurri tökum.

Hún blakar vængjunum hægt upp og niður, hálfafllausum, eins og þeir væru lamaðir, og syngur báðum röddum. Þegar hún ber sig svona að, er góðviðri jafnan í nánd.

*

Stelkurinn veður tjarnirnar, skinnleistaður og stingur ormadorginni rauðu niður í leðjuna. Hann var leiðtogi farfuglanna norður eftir, og er nú nálega hættur að brýna feginsröddina yfir komu sinni á fæðingarstöðvarnar, sem voru alhvítar af gaddi, þegar hann heilsaði fyrst. Nú er hann tekinn að hugsa um og búa sig undir búskapinn og barnauppeldið og setur hann því hljóðan og vinnugefinn. Þó býður hann »góðan dag« á hverjum morgni við Bæjartjörnina í snjöllum og hvellum róm, og hneigir sig nokkrum sinnum á eftir.

*

Lóan syngur uppi. En niðri á jörðinni er heldur ekki þögnin tóm. Sólskríkjan okkar heimalda, sem aldrei hefir farið út yfir pollinn, og líklega alls ekki út úr sveitinni — hún syngur eins vel og fagurlega og hinir fuglarnir, sem hafa framað sig á hverjum vetri — þanið vængi sína til flugs og siglt loftsæinn suður undir miðjarðarlínu.

Svo er að sjá, sem hún sé nú búin að gleyma vetrarraununum, búin að gleyma því, að *góa* var nærri því búin að svelta hana

til bana og frysta í gegn. Vera má, að hún muni þó eftir þessu, en að hún láti það ekki á sig fá.

Steggi og kvennfugl sitja sitt á hvorum hávaða, horfast í augu og gera sér tæpitungu hvort við annað. En um leið og þau horfast í augu, horfa þau beint inn í sælunnar heimkynni — inn í einveldi ástarinnar.

En smámsaman skjótast þau á flug í misháum, bogadregnum línum. Svo drepa þau sér skyndilega niður, tína sinustrá í nefin og hárslæðing af búfénu og skjótast með inn í holur sínar, þar sem þau hafa dyngjur sínar í sniðum. En áður en þau stinga sér á hvarf í holumunnann, skygnast þau í allar áttir, snúa upp á hálsinn, og skima kring um sig og gæta vandlega að, hvort eitthvert óvinarauga sé ekki í nánd, sem fylgi þeim eftir.

Þau hafa strengt trúnaðarheit sín í viðurvist vorgyðjunnar. Sameiginlegur vilji beggja gaf þau saman í hjónaband, sem haldast skyldi til þess, er ungarnir kæmust á fót og flug. Þessi fiðruðu guðsbörn hafa einn gest að eins í boði sínu — hamingjuna.

*

Rjúpurnar bæla sig á fönnunum og lúpa sig niður. Þær eru ekki enn þá orðnar svo dökkar á dúninn, að þeim sé óhætt á auðu flákunum fyrir háltbróður sínum, valnum. Vaninn er líka búinn að hagspekja þær á fönninni. Fannirnar eru orðnar rjúpunum kærar og rjúpurnar fönnunum skuldbundnar; því að þegar hríðin skefldi yfir þær í skjólleysu vetrarins, sátu þær í holunum dægrunum saman, þangað til forðabúr þeirra (sarpurinn) var tæmt og sulturinn rak þær á fætur.

Þó eru nú kvennrjúpurnar teknar að búast til brottfarar frá þeim, — búnar að skifta litum í vöngunum og setja á sig konustrútinn gráa.

Þær eru gæfar, nálega sem alifuglar, og óttast ekki manninn, fremur en hann væri verndari þeirra og bjargráður. Þó skaut hann þúsundum þeirra bana í brjóst á síðasta hausti, og engu færri haustin þar áður. Og auk þess særði hann fjölmargar holundarsárum, sem þær fengu bana af, og urðu svo hröfnum og refum að bráð úti um víðavanginn.

Skyldu þær vera búnar að gleyma þessum meingerðum?

Eða eru þær svona sáttgjarnar?

Hvort munu þær hyggja, að hann hafi bætt ráð sitt síðan?

Sé svo, þá hefir þeim skjátlast hraparlega; því að fyr mun

fálkinn veita þeim frændsemis-trygðir, en maðurinn miskunn og frið.

*

Gróðrarliturinn er kominn í húsþekjur og hlaðvarpa, og fyrsta ærin er borin.

Hún hefir verið látin út á túnið, til þess að viðra sig og lambadrotninguna, dóttur sína, sem er köruð aðeins annars vegar. Móðurinni er ógeðfelt að ganga frá henni betur en svo, vegna óhreinkunnar, sem húsvistin hefir sett á drotninguna hrokkinhærðu.

*Ærin* lítur ekki við jörðinni og *móðirin* snýst í sífellu utan um lambið sitt, drepur niður höfðinu og heldur snoppunni fast að því. Hún þvær það í framan með tungunni, aftur og aftur, og kumrar við því í hvert skifti, sem það fellur og bröltir.

Og kviðurinn lyftist og gengur upp og út í lambsvanginn í hvert sinn, sem móðurröddin titrar í vitunum.

Þegar hún jarmar á vanalegan hátt, ber ekki á þessum samdrætti í holbúknum. En móðurröddin á sér líka dýpri rætur en aðrar raddir og kemur innar frá.

*

Brumið er farið að springa út á kjarrinu, þar sem þrestirnir búa. Þeir eru óeirnir og kviklátir fuglar, og allra fugla kátastir, þegar hlýtt er og sólarsýn góð. En skógurinn er þeim ekki samboðinn — kræklóttur og feyskinn. Og svo eru teinungarnir þróttlausir, sem bera brumið, að þeir svigna og titra þegar þrestirnir verpa sér á þá af fluginu. Þrestirnir kunna hins vegar vel við sig, þegar greinarnar dýja undir þeim. Þeir ráða sér ekki fyrir gleði og fjöri, fljúga fram og aftur, ölvaðir af áfengi vorgyðjunnar, sem hún hefir borið þeim í sólveigum sínum.

*

Og lækirnir kveða við af gargi gráandanna. Þær hafa búið hér alla vetur milli lækjaskaranna og oft átt í vök að verjast. Rödd þeirra er ófögur en sterk. Hún er áþekk rödd stórhríðanna, sem hafa byrgt fyrir þeim vakirnar í mestu aftökunum, þegar norðangarrinn hefir boðið út liði sínu, og lagt herspora yfir heimskautsbauginn.

*　　*　　*

til bana og frysta í gegn. Vera má, að hún muni þó eftir þessu, en að hún láti það ekki á sig fá.

Steggi og kvennfugl sitja sitt á hvorum hávaða, horfast í augu og gera sér tæpitungu hvort við annað. En um leið og þau horfast í augu, horfa þau beint inn í sælunnar heimkynni — inn í einveldi ástarinnar.

En smámsaman skjótast þau á flug í misháum, bogadregnum línum. Svo drepa þau sér skyndilega niður, tína sinustrá í nefin og hárslæðing af búfénu og skjótast með inn í holur sínar, þar sem þau hafa dyngjur sínar í sniðum. En áður en þau stinga sér á hvarf í holumunnann, skygnast þau í allar áttir, snúa upp á hálsinn, og skima kring um sig og gæta vandlega að, hvort eitthvert óvinarauga sé ekki í nánd, sem fylgi þeim eftir.

Þau hafa strengt trúnaðarheit sín í viðurvist vorgyðjunnar. Sameiginlegur vilji beggja gaf þau saman í hjónaband, sem haldast skyldi til þess, er ungarnir kæmust á fót og flug. Þessi fiðruðu guðsbörn hafa einn gest að eins í boði sínu — hamingjuna.

*

Rjúpurnar bæla sig á fönnunum og lúpa sig niður. Þær eru ekki enn þá orðnar svo dökkar á dúninn, að þeim sé óhætt á auðu flákunum fyrir hálfbróður sínum, valnum. Vaninn er líka búinn að hagspekja þær á fönninni. Fannirnar eru orðnar rjúpunum kærar og rjúpurnar fönnunum skuldbundnar; því að þegar hríðin skefldi yfir þær í skjólleysu vetrarins, sátu þær í holunum dægrunum saman, þangað til forðabúr þeirra (sarpurinn) var tæmt og sulturinn rak þær á fætur.

Þó eru nú kvennrjúpurnar teknar að búast til brottfarar frá þeim, — búnar að skifta litum í vöngunum og setja á sig konustrútinn gráa.

Þær eru gæfar, nálega sem alifuglar, og óttast ekki manninn, fremur en hann væri verndari þeirra og bjargráður. Þó skaut hann þúsundum þeirra bana í brjóst á síðasta hausti, og engu færri haustin þar áður. Og auk þess særði hann fjölmargar holundarsárum, sem þær fengu bana af, og urðu svo hröfnum og refum að bráð úti um víðavanginn.

Skyldu þær vera búnar að gleyma þessum meingerðum?

Eða eru þær svona sáttgjarnar?

Hvort munu þær hyggja, að hann hafi bætt ráð sitt síðan?

Sé svo, þá hefir þeim skjátlast hraparlega; því að fyr mun

fálkinn veita þeim frændsemis-trygðir, en maðurinn miskunn og frið.

*

Gróðrarliturinn er kominn í húsþekjur og hlaðvarpa, og fyrsta ærin er borin.

Hún hefir verið látin út á túnið, til þess að viðra sig og lambadrotninguna, dóttur sína, sem er köruð aðeins annars vegar. Móðurinni er ógeðfelt að ganga frá henni betur en svo, vegna óhreinkunnar, sem húsvistin hefir sett á drotninguna hrokkinhærðu.

*Ærin* lítur ekki við jörðinni og *móðirin* snýst í sífellu utan um lambið sitt, drepur niður höfðinu og heldur snoppunni fast að því. Hún þvær það í framan með tungunni, aftur og aftur, og kumrar við því í hvert skifti, sem það fellur og bröltir.

Og kviðurinn lyftist og gengur upp og út í lambsvanginn í hvert sinn, sem móðurröddin titrar í vitunum.

Þegar hún jarmar á vanalegan hátt, ber ekki á þessum samdrætti í holbúknum. En móðurröddin á sér líka dýpri rætur en aðrar raddir og kemur innar frá.

*

Brumið er farið að springa út á kjarrinu, þar sem þrestirnir búa. Þeir eru óeirnir og kviklátir fuglar, og allra fugla kátastir, þegar hlýtt er og sólarsýn góð. En skógurinn er þeim ekki samboðinn — kræklóttur og feyskinn. Og svo eru teinungarnir þróttlausir, sem bera brumið, að þeir svigna og titra þegar þrestirnir verpa sér á þá af fluginu. Þrestirnir kunna hins vegar vel við sig, þegar greinarnar dýja undir þeim. Þeir ráða sér ekki fyrir gleði og fjöri, fljúga fram og aftur, ölvaðir af áfengi vorgyðjunnar, sem hún hefir borið þeim í sólveigum sínum.

*

Og lækirnir kveða við af gargi gráandanna. Þær hafa búið hér alla vetur milli lækjaskaranna og oft átt í vök að verjast. Rödd þeirra er ófögur en sterk. Hún er áþekk rödd stórhríðanna, sem hafa byrgt fyrir þeim vakirnar í mestu aftökunum, þegar norðangarrinn hefir boðið út liði sínu, og lagt herspora yfir heimskautsbauginn.

* * *

Sólin er gengin í hádegisstað, og lognaldan ljósbláa liggur í ládeyðugervi yfir endilöngum dalnum.

Elfarniðurinn yfir við heiðina hvíslar mjúku máli að sveitinni.

Hann dregur ymjandi seiminn milli lægstu raddar og hæsta hljóms.

Honum er nú vaxinu þróttur frá því sem var fyrir nokkrum dögum. Leysingin hefir nú gefið ánni nýja, hljómskæra hörpu, til þess að leika á fyrir — vorgyðjuna.

Söngurinn er tvíraddaður: Lækjaniðurinu í heiðarbrekkunni grípur inn í og blandast saman við strengjaþyt árinnar; en þó hljóma þeir sinn í hvoru lagi.

Svo kemur hafrænan þeytandi utan af firðinum með straumhvika tíbrána í fanginu. Þær renna saman við lognölduna í ljósbláa morgunkjólnum, þagga lóusönginn og blása anda sínum á nýgræðinginn og frjónálarnar í moldinni.

Goluþyturinn samlagar sig lækjarniðnum og elfarhljómnum.

Þeir renna saman í þrískift einveldi.

Hér verða þrír að einum og einn að þremur.

*

Vorgyðjan er nálega almáttug:

Hún kollvarpar hornsteinum talnafræðinnar, og lýkur upp þeirri veröld, sem trúin ein — blind og alskygn getur litið.

Hún lætur hvern dag vinna vegabætur og jarða — ókeypis og með fúsum vilja.

Og á kvöldin sáir hún dögginni og dreifir henni yfir landið, jafnt og þétt, hvarvetna þar sem grasrót er undir, og jafnvel á sviðna kletta og allsnaktar urðir.

Hún stingur hrafninum svefnþorn á miðjum aftni, og friðar eggjamæðurnar fyrir ásælni hans og yfirgangi frá þeim tíma og til þriðju stundar eftir miðnótt.

*

Dísin er komin út á yzta andnes.

Þar situr hún á kvöldin út við marbakkann, laugar fætur sína í lognöldunni og greiðir hár sitt móti sólinni.

Kambur hennar og hárgreiða eru úr rauða-gulli.

Hún býr hvílu sína langt úti á haffletinum — breiðir refla sína og rekkjuvoðir á skýjateinana og hengir ársalinn á blikuböndin yfir fjöllunum.

Öll þessi þing eru ofin úr pelli og purpura og eru hinar mestu gersemar.

Kvöldsólin starir hugfangin á þær. Miðnætursólin dáist að þeim, en aftanroðinn og morgunbjarminn leika sér að þeim og gera á þær fellingar og brot.

Dísinni kemur ekki dúr á auga vikum saman. Hún horfir yfir hafflötinn, sem æðarfuglinn mókir á þúsundum saman í þéttum flekum. Hann sefur við tær hennar, og lognaldan vaggar honum eins og móðir barni sínu.

Geislar miðnætursólarinnar renna láréttir inn að ströndinni og færa hana og landbáruna í dýrindis litklæði.

Hafflöturinn er hvítur í logninu. En á víð og dreif er hann þó dökklitur, þar sem síldartorfurnar vaða ofansjávar. Hvalirnir velta sér í þeim og stinga sér eftir föstum reglum: fyrst tvö grunn-köf og svo taka þeir djúpkafið. Það er auðþekt: Þá kemur sporðurinn allur á loft, en spyrðustæðið rís lóðrétt. Þegar þeir koma úr kafinn, stígur andgufa þeirra lóðrétt í loft upp, hvít eins og hverastroka, en blásturinn þýtur í tanklunum eins og lúður gjalli.

*

Vorgyðjan hefir lagt leið sína yfir landið, þvert og endilangt.

Spor hennar eru alstaðar augljós: í þekjum og vörpum, aurum og árbökkum.

Hún hefir smalað síld og hvölum utan úr hafi og inn að fjöru, seitt sílin upp í landsteina, og teygt hvítfuglinn á land.

Hún hefir drepið fingurgómi sínum á augnabrýr Ægis og dáleitt hinn hamramma jötun.

Hún hefir fundið svaninn að máli suður í verinu og hvatt hann til flugs, létt vængjatökin og vísað honum nýruddar, heiðskírar himinleiðir norður yfir blájökla og berangur hálendisins.

Hún hefir svift sundur líkhjúpi árinnar, brotið kistulokið og sópað öllu á sjó út, en reist hana sjálfa frá dauðum og lyft henni upp á bakkann.

Hún hefir beizlað sunnanvindinn austan við Vínland hið góða og leitt hinn áttfætta, glófexta gæðing þúsund rasta veg norðaustur — norðaustur að rostungalandi og hvítabjarnavegum.

Hún hefir þvegið Fjallkonuna frá hvirfli til ilja — laugað hana í tárhreinu steypibaði og þerrað með dúnmjúkum dreglum sólarinnar.

Hún hefir lyft norðurenda jarðar upp móti sólinni.

Hún hefir líka haft auga á smávæginu — farið niður í jörðina, inn í eggjaskúta gráandanna og hreiðurholur sólskríkjunnar.

Vorgyðjan hefir þó ekki komið á einn stað — að eins einn:

*í hugskot mitt.*

Vill hún ekki koma til mín? Eða get ég ekki veitt henni viðtökur?

Það mun vera hvorttveggja og bæði.

## II.

Ég ligg sunnanundir kirkjuveggnum — moldarveggnum, sem mamma mín hvílir undir og halla mér upp að leiði mömmu minnar.

Það var einu sinni, í öndverðu, hlaðið hærra en hin leiðin — einu hnausalagi hærra eða tveim. En nú er það tekið að lækka — farið að blása sunnan megin, þar sem hádegissólin og hlákuvindurinn njóta sín, sitt í hvoru lagi og í samvinnu.

Hversvegna munu þau vilja jafna yfir *þessa* gröf — slétta yfir moldir *mömmu* — byrgja bústað *hennar* undir jafnsléttunni?

Hin leiðin eru öll saman grasi gróin.

Eru þau að gefa mér bendingu um, að *hún* hafi jafnan látið lítið yfir sér, en að *sumir* tylli sér of mjög á tærnar?

Hún var ætíð elsk að ljósinu og ylnum. Ef til vill eru þau að ryðja geislunum veg niður í gröfina — niður að ásjónunni, sem hefir horft brostnum augum tuttugu og fimm ár samfleytt móti dagsbrúninni — niður að ásjónunni, sem átti varirnar, sem einu sinni kystu mig af fúsum vilja — ekki einu sinni, heldur þúsund sinnum.

Þær hafa nú legið í moldinni fjórðung aldar.

* * *

Svona gengur það:

Varir mömmu fengu ekki að kyssa mig, nema meðan ég hafði ekki vit til að meta kossa hennar, hvers virði þeir voru. Og nú á ég varir handan við leitið og lágina, sem ég fæ ekki að snerta.

Ég sagðist *eiga* varir.

Reyndar *á* ég þær ekki.

Milli okkar er skilrúm, sem hugurinn getur að vísu yfirstigið, en sem líkaminn drepur við fæti sínum.

Vordísin hefir unnið mörg kraftaverk, lagt miskunnsamar hjúkrunarhendur yfir fjölmörg sár. En hún hefir engin hlunnindi veitt mér. — Hún hefir gengið fram hjá mér, á snið við mig, og ekki litið við mér, ekki einu sinni um öxl.

*   *   *

Vina mín!

Ég kalla þig svo; því þótt ég sé ef til vill ekki vinur þinn, þá ertu samt vina mín og miklu meira en það.

En ég vel þér nú ekki það nafn, sem ég nefni þig í einrúmi, eða úti í haganum, þegar ég tala við sjálfan mig stundarhátt; því engan varðar um það nema mig.

En ef haginn hefði mál og golan . . . .?

— Þá væri margt talað í sveitinni.

Hvort sem ég er einn eða í fjölmenni — stari hljóður fram á veginn, eða geri mér upp hlátur og hámælgi, þá er mér ávalt hið sama í hug, eitt og hið sama:

*Þú.*

Ég hefði getað *herjað* á ríki þitt og *brotið* það undir mig.

*Þá hefði ég orðið konungur.*

*En þá hefðir þú ekki orðið drotning.*

Nei, ekki *drotning,* heldur nokkuð annað, sem þér var ekki samboðið.

Þess vegna lét ég það ógert og mundi hafa látið, þótt líf mitt hefði legið við.

Ég vildi hafa þar friðland.

Og þegar hugur minn fer þangað, dregur hann skóna af fótum sér, áður en hann stígur á landið; því að sá staður er honum heilagur.

*Hann hefir nú verið skólaus langa hríð.*

*

Ég minnist samveru okkar, og gleymi henni aldrei, aldrei.

Ég man þegar ég starði á þig og virti fyrir mér æskublóma þinn og yndisþokka.

Ég man það — og man ekki.

— Mér fanst vorið vera komið með hlýindi og sól.

Þó var ég hræddur um, að *áfelli* væri eftir.

En ég varð hlýindunum feginn.

Ég færði mig eftir því sem sólin gekk og ornaði mér við geisla hennar seint og snemma, þegar ég gat.

Mér hafði verið voðalega kalt lengi, lengi. Hendurnar voru orðnar visnar af kulda, fæturnir blóðlausir upp fyrir mjóaleggi og kinnfiskarnir sognir og þurrir.

Svo hitnaði mér.

Hvílík umskifti!

Ylurinn streymdi gegnum mig, inn í hjartarætur og út frá þeim aftur á víð og dreif; hann flaug fram í fingurgóma og streymdi niður í tær.

Hjartað var móttökufæri geislanna og dreifivél. Það var sem fjölgunargler, sem margfaldar sólargeislana og tvístrar þeim víðsvegar.

Æðarnar þrútnuðu og uxu eins og lindir í leysing. Vöðvarnir fengu aftur fjaðramagnið og kinnfiskarnir lifnuðu við.

Ég varð sem nýr maður. Ég varð léttur í spori; hugsanirnar urðu framrækar, og voninni varð bjart fyrir augum.

*

Þegar ég horfði í augu þín, var sem ég sæi himininn opinn — sólroðinn, heiðbláan himininn. Þar var mér sýnd eilífðin sjálf með þeim litum, sem engin nöfn eiga eða tilveru meðal málaranna.

Roði kinna þinna og yfirlitur var sem kvöldroði, þegar góðviðri er í nánd.

Og svo mikill yndisþokki fylgdi þér og kvennsómi, svo mikill innileiki og fegurð, eins og Guð hefði gert þig með hægri hendinni en alt annað með hinni vinstri.

*

Þú gazt vikið þér undan, þegar ég vildi taka himininn höndum, sem meyjarblómi þinn hinn tárhreini hafði yfir að ráða.

En þú gazt ekki varnað mér þess, að *líta* til þín, *horfa* á þig, *stara* og *mæna,* þegar þú varst í örskotshelgi augna minna og í sjónmáli sjáaldurs míns.

Þú gazt vikið þér undan og gengið burt.

En þú gazt ekki meinað mér að horfa eftir þér — fylgja þér með augunum og dást að hinum sjálfgerða vexti þínum og yndislega limaburði, sem hvergi á sinn líka og sem drotningin með tilbúna vöxtinn hlyti að öfunda þig af sáran, ef hún liti þig.

Ég efast ekki um, að sonur hennar og konungsins hefði mist jafnvægið, ef þú hefðir komið honum í augsýn. En ég er jafnviss um hitt: að þú hefðir staðið jafnrétt eftir sem áður. Hann hefði fengið að taka í hönd þína í kveðju skyni; en ekki að ganga nær.

Og þótt hann hefði fært þér hönd sína og hjarta, myndir þú hafa hafnað þeim fórnum. Þú varst og ert drotning allra kvenna, svo þar var engu hægt við að bæta, nema kórónunni og kjólnum, sem þú myndir ekki vilja bera, þótt þeir gripir hefðu staðið þér til boða.

Þú varst drotning, ert og verður, þótt þú gangir ein; því að þú ræður yfir voldugu ríki og víðlendu — svo víðlendu, að í því gengur sólin aldrei undir.

Þar er dagur um miðja nótt.

*

Ég sá augu þín þótt þú snerir þér undan.

*

Og þarna inni í aftanroða-morgunbjarmanum bak við hvarma þína, sá ég og fann það, sem mig hafði lengi langað til að sjá og finna, en sem ég hafði hvorki séð né fundið —

*Guð.*

Ég sá hann með opnum augum og lokuðum, heyrði hann draga andann — heilagan andann — með opnum hlustum og byrgðum.

Auga þitt var skuggsjáin, sem ég sá hann í.

Þú varst fjarlægðin nálæga og nálægðin fjarlæga, sem birti mér hann.

Þú sýndir mér hann með þeim litum, sem dráttskúfar málaranna hafa aldrei verið vættir í.

Ég sá fyrst inn í þessa veröld í skammdeginu.

Þá varð veturinn að vori.

Nú er vorið orðið að hausti.

Nú er áfellið komið.

Hausttíðin legst yfir mig eins og mara og blæs á mig hrollköldum hráslaganum, sem fylgir andardrætti hennar.

Ég kvíði kuldanum og skelfist hann, sem gagntekur mig á þessum vetri, þessum Fimbulvetri, sem nú fer í hönd.

Hví skyldi kuldinn ekki leita gamalla stöðva? Hann þekkir

sig í hugskoti mínu, þarf að eins að opna það, og svo er það honum hentugur, útvalinn bústaður.

Hann sendir hraðskeyti sín í allar áttir, niður í tær og fram í fingurgóma, — kallar hitann úr útlimunum og slær köldum svita út um herðar og andlit.

En þótt þessi ægilegi vetur, sem nú gengur í garð, verði langur og snjóþungur, þótt hann skifti árum og tugum ára — þá munu þó blómjurtir vona minna og minninga, sem *vortíðin* hlúði, verða grænar undir snjónum.

Og ég vinn til þess, að krafsa eftir þeim með berum höndunum oft og tíðum, þótt ég blóðgi mig á gómunum og rífi neglurnar frá kvikunni.

Ég vinn það til, til þess að fá að *sjá* þær.

Já, þær munu verða grænar undir snjónum.

Þær þutu ekki upp eins og arfi — uxu engum örþrifa-ofvexti, sem oftast nær mun verða dáðlaus. Þegar harðnar í tíðinni, heldur hægt og jafnt — svo hægt, að muninn sá aðeins á vikna fresti og mánaða. Að því leyti áttu þær skylt við fjallajurtirnar okkar, smávöxnu, en kjarngóðu, sem fara grænar undir snjóinn á haustin og koma grænar undan honum á vorin.

En munu jurtirnar mínar nokkru sinni blómgast?

Til þess þarf snjóinn að taka upp. Þær geta haldist grænar undir snjónum; en þær geta ekki blómgast undir snjó.

En þótt veturinn verði frostharður og dimmviðrasamur, verður þú samt

vina mín!

ljósblettur á leið minni — morgunstjarna og kvöldstjarna huga míns, sem tindrar í fjarskanum gegnum kólguna og kafaldið.

Hvað annað?

Þú hefir aukið manngildi mitt — hækkað hlutabréf lífs míns í verði.

Áður en ég kyntist þér, þótti mér það varla eyris virði. En nú vildi ég ekki láta það, þótt alt gull veraldar væri í boði, og þótt mér væri veittur frestur, til þess að eyða því, áður en hlutabréfið felli í gjalddaga.

Þú hefir að vísu valdið mér sársauka — óviljandi.

En þú hefir líka sýnt mér heilaga þrenning: Trúna, Vonina og Kærleikann.

Þér á ég það að þakka, að ég veit hvað ástin er — að hún

er æðsta tegund vináttu og nokkuð meira og annað, sem ekki verður skýrt, en fundið þó og skilið.

Þú hefir verið altaf söm og jöfn: engu lofað og ekkert rofið.

Þú ert bjarg, sem óhætt er að byggja á hús framtíðar sinnar. Sá maður er hamingjusamur, sem *fær* að gera það, sem *gerir* það og *getur* gert það.

*  *  *

Sumartíðin frjóvgar landið og farsælir.

En í huga mínum er haust.

Þess vegna halla ég mér upp að sólbrunna leiðinu. Þess vegna hefi ég gengið á landamærin, sem skilja lifandi-dauða og dánalifandi.

Vordís? Þú vilt ekki koma til mín. En gaktu samt ekki fram hjá henni, sem sýndi mér inn í landið, þar sem aftanbjarminn og dagrenningin ná saman — hvað sem mér líður.

Ég sárbæni þig og særi við Sólina móður þína og föður þinn Guð.

Komdu til hennar og vertu hjá henni.

Láttu allar blómjurtirnar, sem þú hefir gróðursett í landeign þinni, spretta á leið hennar. — Henni þykir svo vænt um blómin.

Láttu alla söngfuglana þína syngja henni til skemtunar — yfir henni og umhverfis hana. — Hún hefir svo næmt söngeyra og dáist svo innilega að fögrum söng.

Láttu andvarann suðræna hjúfra sig að henni. — Hún er svo viðkvæm.

Láttu daggirnar glitra fyrir fótum hennar. — Hún hefir svo glögga fegurðartilfinning.

Stefndu geislunum til hennar seint og snemma. — Hún er svo elsk að ljósinu, og hlýindin eru henni svo nauðsynleg.

Fræddu hana um leyndardóma lífsins og tilverunnar, sem þú ert svo margfróð um og gjörkunnug. — Hún er svo fróðleiksgjörn, að hún vill gjarnan fræðast um þessa hluti og svo vitur, að hún skilur alt það, sem henni er sagt.

En um fram alt: Gefðu henni fallega drauma — rólega, inndæla drauma.

*

Sólin er gengin út í haf.

Þú ert nú líklega sofnuð. En sennilegt er, að þig dreymi

mig núna, svo sterkan, veikan hug, sem ég ber nú til þín, vina mín.

Ef ég bæri nú óskasteininn í lófa mínum, skyldi ég gera mig að engli — að varðhaldsengli þínum. Þá gæti ég verið hjá þér hvern dag og hverja nótt, setið á rekkjustokki þínum og staðið við höfðalag þitt, óhultur og ósýnilegur. Ég myndi ekki sakna líkamans; því ást mín er ekki líkamleg.

Bráðum loka ég augunum og svefninn skefur lífstein í holsárið, sem vakan megnar ekki að græða né taka úr verkinn.

Vera mín líður þá inn fyrir landamærin, inn í lognöldu hins hulda hafs, sem liggur og bærist undir yfirborði hlutanna.

Ég get lokað augum mínum og eyrum mér að skaðlausu. Ég sé og heyri eins fyrir því. Vitund mín verður þá öll að einu ógreindu skilviti.

*

Gott er að vera á leiði þínu, mamma. Ég þekki engan stað jafngóðan, sem mér er heimilt að koma á — engan stað, sem liggur jafn-nærri fyrirheitna landinu.

Það er ekki hátt. En þó er frá því það bezta útsýni, sem ég hefi notið. Ég sé djarfa fyrir landinu sunnan og ofan við kirkjuna. Ég sé bláma fyrir móðunni, sem engin járnbrú verður lögð yfir, en sem þeir menn fá auðveldan flutning yfir, sem minsta búslóð hafa í eftirdragi.

Mamma! Gott er að hafa leiðið þitt undir höfðinu. En betra verður þó hitt:

að hafa höfuðið undir því.

*Þá getur ekki vorið orðið að hausti.*

---

## Lausaleiksbarnið.

(Eftir *Carl Ewald,* úr »Sulamiths Have«.)

---

Einu sinni var aðalsmaður, sem feldi ákafa ást til stúlku, er hann gat þó ekki átt, af því hún var fátæk og af lágum stigum, en hann sjálfur sökum æsku háður frændum sínum, sem með engu móti vildu leyfa, að þessi ráð tækjust.

Fyrst sat hann á sér og lagði ást sína í læðing, þó hann vissi vel, að stúlkan elskaði hann aftur, — af því hann vildi ekki steypa henni í ógæfu. En brátt varð sú raunin á, að honum var ómögulegt að lifa án hennar. Hann varð æ þunglyndari og þunglyndari, og hugsaði um hana dag og nótt; hann neytti hvorki svefns né matar og hafði ekki rænu á neinu.

Honum fór nú að verða ljóst, að það mundi gersamlega fara með hann bæði andlega og líkamlega, ef hann væri lengur að leggja höft á ást sína, og með því honum gat ekki betur fundist en hún væri réttmæt og af guðlegum rótum runnin, þá fór hann á fund stúlkunnar og hóf mál sitt á þessa leið:

»Þú veizt, að ég ber fölskvalausa ást til þín, og mundi einskis óska framar en að að gera þig að eiginkonu minni fyrir guði og mönnum. Þú veizt líka, að þetta getur ekki orðið, meðan ég er ófullveðja, af því frændur mínir aftaka það. Ég hafði því hugsað mér að þreyja og bíða, unz fullveðjadægur mitt rynni upp, en ég þrái þig svo mikið, að ég get ekki sofið og enga ánægjustund haft. Mér hefur nú dottið í hug, að úr því að drottinn hefur kveykt slíkt bál í jafnungum brjóstum og okkar, þá geti það ekki verið tilgangur hans, að okkur skuli vera stíað sundur. Ég hef líka verið að hugsa um, að þó þú nú, þegar þar að kemur, hvílir mér á armi, meðan okkur verður auðið að eigra hérnamegin, þá komi þó þau árin, sem líða meðan við verðum að bíða og neita okkur um alla munuð, aldrei aptur, svo að við þannig verðum svikin um nokkuð af sælu okkar. Því spyr ég þig, hvort þú viljir leyfa mér að koma á laun í herbergi þitt og taka þig í faðm mér eins og þú værir orðin konan mín, sem þú líka sannarlega skalt verða, jafnskjótt og unt er.«

Stúlkan varð kafrjóð við þessa djarfmannlegu ræðu, varp geislum sjóna sinna djúpt inn í auga hans og mælti síðan:

»Satt segið þér þetta, herra! Og með því að mér hefur staðið á sama um alla aðra karlmenn í heiminum síðan ég sá yður, og með því ást mín og þrá er engu minni en yðar, þá skal herbergi mitt standa yður opið, jafnan er þér viljið þangað leita.«

Svo liðu nokkrir mánuðir og þau nutu sælu sinnar og lofuðu daglega guð meðan þau voru að teyga ástabikarinn. En svo bar það til einn dag, að hestur aðalsmannsins datt með hann á harða spretti, svo hann hlaut bana af samstundis. Stúlkunni varð svo mikið um þetta, að hún hefði sjálfsagt sprungið af harmi, ef hún

hefði ekki gengið með barni hans, sem hún hafði elskað heitar en sóma sinn. Nú beið hún sinnar stundar og ól fagurt og vel vaxið sveinbarn, sem var svo líkt föður sínum, að henni þótti sem nú gæti hún borið harm sinn.

Þegar hún var orðin heil heilsu, fór hún að finna frændur elskhuga síns og heimtaði, að sonur hans væri viðurkendur sem réttur erfingi að nafni hans, eignum og tign. Þeir biðu þess ekki einu sinni, að hún fengi lokið máli sínu, heldur jusu yfir hana skömmum og óbótaorðum:

»Þú ert litlu skárri en skækja! Þú getur farið til sveitarstjórnarinnar með hórkróann þinn!«

Síðan fleygðu þeir í hana fáeinum gullpeningum og skeltu svo hurðinni í lás á hæla henni.

Hún lofaði gullpeningunum að liggja í sorpinu, þar sem þeir vóru komnir, og sendi kæru til ráðsins. Hún fór til allra lögfræðinga í bænum og bað þá um aðstoð, en enginn vildi veita henni ásjá. Þeir sýndu henni fram á, að tiltæki hennar væri þvílík fjarstæða, að þeir gætu ekkert við það átt, og margir héldu að hún væri ekki með öllum mjalla. En hún kærði sig kollótta um, hvað þeir sögðu, og var staðráðin í að flytja mál sitt sjálf.

Daginn, sem þetta átti fram að fara, var ráðsalurinn troðfullur af fólki, með því að fregnin um stúlkuna og atferli hennar hafði flogið víða; og þegar hún kom inn í salinn, gullu við bæði háðungaróp og meðaumkvunarraddir í gegn henni. Hún var í ekkjubúningi og bar son sinn á handleggnum, í fátæklegum reifum. Hún bar höfuðið hátt, er hún gekk að dómgrindunum, þar sem hinir sjö dómarar sátu, vitrir og gamlir, með síðum, hvítum skeggjum og réttvísum augum.

Svo sagði hún frá öllu, eins og það hafði gengið. Hún lýsti því, hvernig ástin hefði hrifið þau, unaðsfull og óslökkvandi, hrifið hana og hann, sem nú væri nár; hvernig frændur hans hefðu sett sig á móti gifting þeirra, og hvernig þau hefðu einsett sér að bíða, en ekki getað það. Hún hafði geymt í hjarta sér hvert orð, sem unnusti hennar hafði sagt, og þegar hún var að rekja þau fram með titrandi rödd, — með því hún lét bugast af harminum —, viknuðu margir af óheyrendunum, svo að þeim vöknaði um augu. Því næst mælti hún:

»Að sönnu veit ég, að ég hef brotið gegn lögum mannanna, þó samvizka mín sé flekklaus fyrir guði, og minningin um ást

hins göfga herra míns eigi hægt með að bæta mér upp fyrirlitningu nágranna minna. Þér megið því ekki ætla, að ég heimti nokkuð handa sjálfri mér. Þess eins krefst ég, að sonur þess manns, er vafði mig örmum, verði viðurkendur sem réttur og sannur arfþegi hans.«

Þegar hún hafði lokið ræðu sinni, varð mjög ókyrt í salnum, og sumir gerðu upphátt góðan róm að máli hennar. En elzti dómarinn reis upp úr sæti sínu og krafðist með hárri raust þagnar. Síðan setti hann á sig gleraugun og fór að blaða í stórri bók í arkarbroti, sem lá á borðinu fyrir framan hann. Þegar hann hafði fundið staðinn, hóf hann þegar upp dómsorð sitt á þessa leið:

»Ógæfusama, hrasaða kona! því svo verða menn að kalla þig, þar sem þú hefur glatað sóma þínum og hefur ratað í raunir og óvirðing manna. Illu heilli lézt þú hinn framliðna aðalsmann fífla þig og gerðist frilla hans; og eins og þú af frjálsum vilja þoldir skömmina, eins verður þú nú með nauðung að þola skaðann. Svo segja lögin, sem sett eru til þess að vernda hið heilaga hjónaband, að barn þitt sé óskírgetið og geti enga kröfu gert til nafns og eigna hins látna. Gakk á brott héðan og hyl smán þína!«

»Herra dómari!« sagði stúlkan, og allir í salnum hlustuðu með slíkri fíkn á orð hennar, að menn þorðu varla að draga andann. »Sannlega er barn þetta, er ég ber hér á handlegg mér, skírgetið, ef annars nokkurt barn getur kallast svo. Skír var sú ást, sem dró minn göfga herra og mig hvort að öðru og skírlega vafði hann mig örmum. Hafi ekki hann og ég verið sönn hjón, hver skyldu þá hafa verið það? Lítið á þennan svein, sem er ávöxtur ástar okkar, og segið mér svo, hvort þér finnið blett eða lýti á honum. Haldið þér, að hann hefði orðið fallegri, þó presturinn hefði blessað sáttmála okkar?«

Á meðan hún var að tala, tók hún reifana af sveininum og hóf hann hátt í stuttu skyrtunni sinni, svo allir gætu séð hann.

»Svo skipa lögin, og eftir lögunum hef ég dæmt,« sagði dómarinn byrstur.

»Stendur það skrifað í bókinni þarna?« spurði stúlkan og benti á arkarskrudduna, sem lá opin á borðinu.

»Sannlega stendur það þar,« svaraði dómarinn. »Í þessa bók er ritað, það sem vitrir löggjafar í þúshundrað ára hafa dæmt gott og gilt.«

Stúlkan var náföl og augu hennar tindruðu. Óðar en varði, og án þess nokkur gæti spornað við því, setti hún sveininn á miðja opnu bókarinnar.

»Lifandi barnið mitt ber ég fram gegn hinni dauðu vizku!« sagði hún snjalt og hátt.

Dómaranum varð bilt við og hrökk aftur á bak, og allir, sem vóru í salnum, hrópuðu upp yfir sig og stóðu upp til þess að geta séð. Drenghnokkinn hló og skríkti og baðaði út öngunum.

Og þegar sem hæst stóð, sýndi hann, að hann var lifandi og hraustur og góður fyrir sinn hatt, því hann hægði sér með mestu ánægju á lögin, svo að engin tiltök vóru, að þau yrðu brúkuð framar.

Þýtt af

V. G.

---

## Ekkjan við ána.

---

Hví skyldi ég ekki reyna að byrla Braga full
og bræða, steypa og móta hið dýra feðra gull,
ef heimasætan kynni að horfa á aðferð mína
og hlusta á stutta sögu um mömmu og ömmu sína.

* * *

Á bakkanum við ána hún bjó við lítil völd
og barðist þar við skortinn í næstum hálfa öld.
Á hrífuskafti og prjónum vár höndin krept og bogin
og hartnær þorrin brjóstin — af tíu munnum sogin.

Og meðan inn' í sveitinni bústöðum var býtt
og býlin sneydd og aukin, af kappi um völdin strítt
hún undi sér við heiðina' og elfarstrauminn bláa
en annars vegar hraunið — í kotinu sínu lága.

Hún elskaði ekki *landið,* en aðeins þennan blett
— af ánni nokkra faðma, og hraunið svart og grett.
Er grannarnir sig fluttu á hnöttinn hinum megin
'ún hristi bara kollinn og starði fram á veginn.

* * *

segja, að hlutfallskosningar eftir reglum þeirra Phragméns og Thieles séu svo, að vel megi hafa þær við þingkosningar í stórum kjördæmum.

Hlutfallskosningar hafa mikla kosti fram yfir venjulegar meirihlutakosningar, en samt virðist mér þær eigi fullnægjandi. Þær efna ekki fullkomlega það, sem þær lofa. Það verður jafnan meira og minna af atkvæðum, sem fer til ónýtis, atkvæðin fá eigi fullkomlega sitt hlutfallslega gildi og eftir reglum þeim, sem kunnar eru, geta kosningar mistekist að sumu leyti. En það yrði of langt mál að ræða um það, og því læt ég að sinni úttalað um hinar venjulegu hlutfallskosningar, og snýég mér að annari kosningaraðferð, sem ég að vísu hef hvergi séð ritað um, þó að ég taki ýms aðalatriðin eftir öðrum.

Í fyrra skrifaði prófessor William Scharling ritgjörð um endurbætur á grundvallarlögum Dana.[1] Hann kennir þjóðhagsfræði við háskólann í Kaupmannahöfn og var lengi foringi hægrimanna í fólksþinginu, svo að það er full ástæða til að gefa gaum að orðum hans.

Það hefur enginn getað mótmælt þeim dómi, er hann leggur á kosningarlögin, enda er hann réttur og sannur, Ég bið því menn að taka eftir því, sem hann segir um þetta mál. Hann segir, að kosningaraðferðin eftir þeim sé úrelt og óheppileg, og kosningarlögin ill lög og ranglát. Hann sýnir fram á, að margir menn greiði ekki atkvæði, af því að þeim gefist að eins kostur á að kjósa um einn eða tvo menn, sem sannfæring þeirra leyfi þeim eigi að gefa atkvæði sitt, og hann sýnir fram á, að meirihluti þingmanna samsvari alls eigi meirihluta kjósendanna.

Hann segir að aðalatriðið sé, að fá því framgengt, 1) »að allir kosningarbærir menn noti kosningarrétt sinn, svo framarlega, sem þeim sé það eigi með öllu ómögulegt« og 2) »að hver þingflokkur fái fulltrúa á þingi hér um bil eftir því, hversu margir kjósendur veiti honum fylgi«.

Hann segir, að það sé því fyrst og fremst nauðsynlegt, að leysa þann klafa, sem bindi sérhvern kjósanda við að kjósa einhvern af framboðum kjördæmisins, hvort sem honum líkar þeir betur eða ver.

Fyrir því leggur hann til að, að leynileg atkvæðagreiðsla sé

[1] Will. Scharling: Grundlovsrevision, i »Tilskueren« 1898, bls. 765—790.

lögleidd,[1] og að kjördæmin í hverju amti og í Kaupmannahöfn[2] séu sameinuð, því að þá sé um fleiri að velja, og að hver kjósandi gefi að eins einum framboða atkvæði sitt.

Ég hef ekki áður minst á þetta atriði, að hver kjósandi gefi að eins einum manni atkvæði sitt. En þetta er eitt af þeim aðalatriðum, er ég síðar mun ræða nokkru nákvæmar; en nú vil ég nefna hið næsta aðalatriði.

Sænskur vísindamaður, dr. Cassel, hefur skrifað ritgjörð um hlutfallskosningar[3] og sýnt þar fram á, hversu það sé ástæðulaust, að láta atkvæði þingmanna hafa jafnt gildi. Eftir því sem nú sé, þá skifti engu, hvort þingmaðurinn hafi mörg atkvæði eða fá. Afleiðingin af þessu sé sú, að atkvæðið missi sitt hlutfallslega gildi, og verði ekki bætt úr því, nema því að eins, að atkvæði hvers þingmanns hafi gildi eftir þeim atkvæðafjölda, sem hann hefur fengið við kosninguna.

Þetta var annað aðalatriðið, og þá kem ég að þriðja aðalatriðinu, en um það veit ég ekki til, að neinn maður hafi ritað sérstaklega, heldur hef ég það úr norskum lögum. Ég hef áður minst á lög Norðmanna 5. júní 1897, sem veita Norðmönnum rétt til að greiða atkvæði við þingkosningar, þótt þeir séu í útlöndum. Í þessum sömu lögum er kjósanda leyft að greiða atkvæði með ákveðnum stjórnmálaflokki eða óákveðinni framboðaskrá einhvers flokks, án þess að nefna menn þá, er kjósandinn vill hafa kosna.

Þessi þrjú aðaðatriði álít ég að séu skilyrði fyrir því, að fullnægt sé hinni þriðju réttlætiskröfu, að hvert atkvæði fái fult hlutfallslegt gildi, og skulum vér nú athuga þetta dálítið nákvæmar.

Ég hef áður talað um, hversu það sé óheppilegt, að binda menn við að kjósa einn eða tvo menn í kjördæmi, og sýnt fram á, að landið ætti að vera eitt kjördæmi. Hér á landi eru í nokkrum kjördæmum kosnir tveir menn, og á hver kjósandi að gefa báðum atkvæði sitt, ef það á að vera tekið til greina. Í samræmi

[1] Eins og áður er getið, má telja víst að þetta verði lögtekið.

[2] Hér er lagt til að alt Ísland sé eitt kjördæmi; Ísland alt hefur að eins 76 þúsund íbúa, en 1. febr. 1900 voru íbúar Kaupmannahafnar 360,000 (og að úthverfunum meðtöldum 479,000) eða framt að því fimmfalt fleiri. Tillaga Scharlings er því miklu mikilfenglegri en tillaga sú, sem hér er um að ræða.

[3] Dr. G. Cassel: Om proportional Repræsentation i »Tilskueren« 1896, bls. 466—476.

við þetta ætti þá reglan að vera, að kjósandinn kysi alla þingmenn á landinu eða 30 menn alls. Ég vona að menn sjái þegar í stað, hversu þetta er fráleitt. Það eru fæstir, sem þekkja 30 af þingmannaefnunum, og þótt þeir þektu þau 30, þá mundu fáir kjósendur með góðri samvizku geta gefið þeim öllum atkvæði sitt. Auk þess sem þetta væri hið sama sem að skipa mönnum að kjósa í blindni eða jafnvel gegn sannfæringu sinni, þá væri þetta bygt á þeim ramskakka grundvelli, að hver kjósandi ætti í raun og veru að ráða allri stjórn landsins, þar sem hver kjósandi á að eins með atkvæði sínu að hafa áhrif á landsmálin í hlutfalli við önnur atkvæði samlanda sinna.

Kjósandanum er nægilegt að hafa einn fulltrúa fyrir sig. Þegar hann má velja úr öllum þingmannaefnum landsins, þá getur varla hjá því farið, að hann geti eigi fundið einhvern fulllrúa, er hann telur treystandi til að vera það. Ef hann svo vill styðja fleiri þingmannaefni, þá getur hann greitt atkvæði með þeim flokki, er hann fylgir að málum. En það sýnist eigi vera rétt, að leyfa kjósanda að kjósa fleiri eða færri þingmenn sitt úr hverjum flokki; atkvæðagreiðslan verður á þann hátt bæði flókin og svo sjáum vér eigi, hvert gagn er í því, að kjósendur séu að hringla þannig með atkvæði sín. Vér sjáum því, að tillaga Will. Scharlings prófessors um það, að kjósandi gefi einum framboða atkvæði sitt, er á fullum rökum bygð.

En eins og ég hef tekið fram, þá er eðlilegt, að kjósandi geti greitt atkvæði með þeim flokki, er hann fylgir að málum.

Flestir hafa heyrt dæmisöguna um föðurinn og stafina. Þegar faðirinn tók alla stafina í einu, þá var eigi hægt að brjóta þá, en þeir hrukku allir sundur, þegar tekinn var einn og einn. Það er mikill munur á því, hvort kjósendur eru á tvístringi og sundrungarandi ræður meðal manna, eða hvort menn sameina sig og fylgja ákveðinni stefnu.

Þess vegna eru í öllum siðuðum löndum stjórnmálaflokkar, sem fylgja einhverri ákveðinni stefnu í velferðarmálum landsmanna. Sérhver kjósandi verður að gjöra sér ljóst, hvort hann vill fylgja nokkrum flokki, og ef svo er, þá hverjum flokki hann vill fylgja að málum. En ef þetta er rétt, þá er einnig rétt, að kjósandinn geti sýnt það með atkvæðaseðli sínum, hvern flokk hann vill styðja.

Eftir reglu Hagenbach Bischofs við hlutfallskosningar er það beinlínis ákveðið, að kjósa skuli eftir framboðaskrám. Kjósandinn

lögleidd,[1] og að kjördæmin í hverju amti og í Kaupmannahöfn[2] séu sameinuð, því að þá sé um fleiri að velja, og að hver kjósandi gefi að eins einum framboða atkvæði sitt.

Ég hef ekki áður minst á þetta atriði, að hver kjósandi gefi að eins einum manni atkvæði sitt. En þetta er eitt af þeim aðalatriðum, er ég síðar mun ræða nokkru nákvæmar; en nú vil ég nefna hið næsta aðalatriði.

Sænskur vísindamaður, dr. Cassel, hefur skrifað ritgjörð um hlutfallskosningar[3] og sýnt þar fram á, hversu það sé ástæðulaust, að láta atkvæði þingmanna hafa jafnt gildi. Eftir því sem nú sé, þá skifti engu, hvort þingmaðurinn hafi mörg atkvæði eða fá. Afleiðingin af þessu sé sú, að atkvæðið missi sitt hlutfallslega gildi, og verði ekki bætt úr því, nema því að eins, að atkvæði hvers þingmanns hafi gildi eftir þeim atkvæðafjölda, sem hann hefur fengið við kosninguna.

Þetta var annað aðalatriðið, og þá kem ég að þriðja aðalatriðinu, en um það veit ég ekki til, að neinn maður hafi ritað sérstaklega, heldur hef ég það úr norskum lögum. Ég hef áður minst á lög Norðmanna 5. júní 1897, sem veita Norðmönnum rétt til að greiða atkvæði við þingkosningar, þótt þeir séu í útlöndum. Í þessum sömu lögum er kjósanda leyft að greiða atkvæði með ákveðnum stjórnmálaflokki eða óákveðinni framboðaskrá einhvers flokks, án þess að nefna menn þá, er kjósandinn vill hafa kosna.

Þessi þrjú aðaðatriði álít ég að séu skilyrði fyrir því, að fullnægt sé hinni þriðju réttlætiskröfu, að hvert atkvæði fái fult hlutfallslegt gildi, og skulum vér nú athuga þetta dálítið nákvæmar.

Ég hef áður talað um, hversu það sé óheppilegt, að binda menn við að kjósa einn eða tvo menn í kjördæmi, og sýnt fram á, að landið ætti að vera eitt kjördæmi. Hér á landi eru í nokkrum kjördæmum kosnir tveir menn, og á hver kjósandi að gefa báðum atkvæði sitt, ef það á að vera tekið til greina. Í samræmi

[1] Eins og áður er getið, má telja víst að þetta verði lögtekið.

[2] Hér er lagt til að alt Ísland sé eitt kjördæmi; Ísland alt hefur að eins 76 þúsund íbúa, en 1. febr. 1900 voru íbúar Kaupmannahafnar 360,000 (og að úthverfunum meðtöldum 479,000) eða framt að því fimmfalt fleiri. Tillaga Scharlings er því miklu mikilfenglegri en tillaga sú, sem hér er um að ræða.

[3] Dr. G. Cassel: Om proportional Repræsentation i »Tilskueren« 1896, bls. 466—476.

við þetta ætti þá reglan að vera, að kjósandinn kysi alla þingmenn á landinu eða 30 menn alls. Ég vona að menn sjái þegar í stað, hversu þetta er fráleitt. Það eru fæstir, sem þekkja 30 af þingmannaefnunum, og þótt þeir þektu þau 30, þá mundu fáir kjósendur með góðri samvizku geta gefið þeim öllum atkvæði sitt. Auk þess sem þetta væri hið sama sem að skipa mönnum að kjósa í blindni eða jafnvel gegn sannfæringu sinni, þá væri þetta bygt á þeim ramskakka grundvelli, að hver kjósandi ætti í raun og veru að ráða allri stjórn landsins, þar sem hver kjósandi á að eins með atkvæði sínu að hafa áhrif á landsmálin í hlutfalli við önnur atkvæði samlanda sinna.

Kjósandanum er nægilegt að hafa einn fulltrúa fyrir sig. Þegar hann má velja úr öllum þingmannaefnum landsins, þá getur varla hjá því farið, að hann geti eigi fundið einhvern fulllrúa, er hann telur treystandi til að vera það. Ef hann svo vill styðja fleiri þingmannaefni, þá getur hann greitt atkvæði með þeim flokki, er hann fylgir að málum. En það sýnist eigi vera rétt, að leyfa kjósanda að kjósa fleiri eða færri þingmenn sitt úr hverjum flokki; atkvæðagreiðslan verður á þann hátt bæði flókin og svo sjáum vér eigi, hvert gagn er í því, að kjósendur séu að hringla þannig með atkvæði sín. Vér sjáum því, að tillaga Will. Scharlings prófessors um það, að kjósandi gefi einum framboða atkvæði sitt, er á fullum rökum bygð.

En eins og ég hef tekið fram, þá er eðlilegt, að kjósandi geti greitt atkvæði með þeim flokki, er hann fylgir að málum.

Flestir hafa heyrt dæmisöguna um föðurinn og stafina. Þegar faðirinn tók alla stafina í einu, þá var eigi hægt að brjóta þá, en þeir hrukku allir sundur, þegar tekinn var einn og einn. Það er mikill munur á því, hvort kjósendur eru á tvístringi og sundrungarandi ræður meðal manna, eða hvort menn sameina sig og fylgja ákveðinni stefnu.

Þess vegna eru í öllum siðuðum löndum stjórnmálaflokkar, sem fylgja einhverri ákveðinni stefnu í velferðarmálum landsmanna. Sérhver kjósandi verður að gjöra sér ljóst, hvort hann vill fylgja nokkrum flokki, og ef svo er, þá hverjum flokki hann vill fylgja að málum. En ef þetta er rétt, þá er einnig rétt, að kjósandinn geti sýnt það með atkvæðaseðli sínum, hvern flokk hann vill styðja.

Eftir reglu Hagenbach Bischofs við hlutfallskosningar er það beinlínis ákveðið, að kjósa skuli eftir framboðaskrám. Kjósandinn

verður annaðhvort að vera með öllum framboðum flokksins eða ekki. Hann verður að greiða atkvæði sem flokksmaður. Þetta hefur verið lögleitt í ýmsum ríkjum í Sviss, eins og áður er um getið, og sýnir það, hversu Svisslendingar telja flokksfylgi manna nauðsynlegt. Samt sem áður getur vel verið, að kjósandi geti alls eigi felt sig við, að gefa öllum flokksframboðum atkvæði sitt, og þá er óeðlilegt, að neyða hann til þess. Þess vegna er eðlilegt að láta hverjum kjósanda vera frjálst, hvort hann vill fylgja ákveðnum flokki eða ekki, eins og Norðmenn hafa gjört.

Sérhver kjósandi getur því kosið á þrjá vegu. Ef hann vill eigi fylgja neinum flokki, þá kýs hann einhvern af framboðum landsins, er honum geðjast bezt að, án þess að greiða atkvæði um flokka. En afleiðingin verður þá og, að atkvæði hans hefur ekkert hlutfallslegt gildi að því er snertir stjórnmálaflokkana. Ef kjörþegi hans fellur, þá er líka atkvæði hans fallið með honum og alveg úr sögunni.

Ennfremur getur kjósandinn greitt atkvæði með ákveðnum manni og ákveðnum flokki, er hann vill fylgja að málum. Ef svo er, þá á atkvæðið ekki að falla, þótt kjörþeginn falli. Heldur á atkvæðið þá að gilda til þess, að styðja flokkinn. Ef kosningalögin ákvæðu, að atkvæðið skyldi falla, þá væri það bæði fávíslegt og ranglátt, því að, þegar kjósandi greiðir atkvæði sitt, þá veit hann ekkert um það, hvort kjörþegi hans muni ná kosningu. Það er ekki á hans valdi að ráða því, heldur er það komið undir því, hvort aðrir menn, sem hann hefur engin yfirráð yfir, gefa kjörþega hans atkvæði sín. Kjósanda er því ekkert um að kenna, þó að sá maður, sem hann kýs, nái eigi kosningu. Ef atkvæði hans ætti að falla, þá væri hann sviftur borgaralegum réttindum af óeðlilegum ástæðum. Það er einnig ranglátt gagnvart flokki kjósandans að fella atkvæðið, því flokkurinn hefur fylgi þessa manns og það raskar þeirri aðalsetningu, sem William Scharling tekur svo ljóst fram, að hver þingflokkur eigi að fá fulltrúa á þingi hér um bil eftir því, hversu margir kjósendur veita honum fylgi.

Þar sem það hefur jafnvel verið lögleitt víða á Svisslandi, að kjósendur skuli greiða atkvæði sem flokksmenn, þá ætti það að geta orðið viðurkent, að það væri rétt, að kjósendur mættu hafa heimild til að greiða atkvæði með flokki sínum. En ef menn játa að þetta sé rétt, þá verða menn og að játa, að það sé rétt, að

kjósandinn megi greiða atkvæði með flokki sínum, án þess að nefna ákveðinn mann, eins og Norðmenn hafa lögleitt hjá sér.

Þegar nú kjósandi greiðir atkvæði með flokki sínum, án þess að nefna ákveðinn mann eða hann gjörir það, en kjörþegi hans fellur, þá er afleiðingin sú, að hann greiðir atkvæði með framboðaskrá flokksins, þannig, að framboðarnir allir fá jafna hlutdeild í atkvæðinu, eða réttara sagt, allir þeir af framboðunum, sem kosningu hljóta, en þetta verður að vera komið undir því, hver framboðinn fær flest atkvæði annara eða þá hlutkesti, eins og ég mun minnast á síðar.

Þegar kjósandi greiðir atkvæði með ákveðnum manni, sem nær kosningu, þá er það mjög þýðingarmikið, að kjósandinn einnig taki fram, hverjum flokki hann eigi að fylgja. Sérstaklega væri þetta nauðsynlegt hér á landi, þar sem engir flokkar með ákveðinni stefnu geta þrifist, þar sem sumir þingmenn virðast aldrei hafa neina ákveðna stefnu eða sannfæringu, heldur hringla til og frá. Menn vilja fylgja þjóðarviljanum, hvað svo sem þeirra eigin sannfæringu líður. Menn skifta um skoðanir, eins og menn skifta um föt eftir veðri.

En er það heppilegt, þegar fulltrúar þjóðarinnar eru sannfæringarlausir menn, stefnulausir menn, sem eru með því í dag, sem þeir andæfa á morgun? Eða er það heppilegt, þegar trúnaðarmenn þjóðarinnar hafa svo hálsliðamjúka sannfæringu, að þeir geta snúist eins og vindhanar.

Í 31. grein stjórnarskrárinnar eru orð, sem tekin eru upp úr grundvallarlögum Dana; þau hljóða þannig: »Alþingismenn eru eingöngu bundnir við sannfæringu sína«. Það er auðséð, að þessi orð eru samin á þeim tíma, þegar menn eigi þektu Panamamálið á Frakklandi eða bankamálið á Ítalíu. Nú á tímum munu fáir vera svo barnalegir, að ímynda sér, að þingmenn fari jafnan eftir sannfæringu sinni, og þó að ég hafi sérstaklega talað um Ísland, þá eru þingmenn annara landa einnig breyzkir; en því ver reynist þingræðið, sem þjóðirnar standa á lægra stigi í siðgæði og allri menning. Þingmenn skifta oft um skoðanir af alt öðrum ástæðum en sannfæringu. Danskur maður, Vilh. Lassen ritstjóri, sagði svo í vetur: »Í öllum fulltrúaþingum eru menn, sem eru fátækir af sannfæringu í stjórnmálum, en hafa nægtir af metorðagirnd og undirferli«. »Milliflokkar eru reglulegt eitur fyrir skipulegt stjórnarfar. Milliflokkar eru uppleysandi efni, sem gjöra stjórnmál landsins

rotin. Þegar hið pólitiska líf ríkjanna er byggt á millumflokkum, þá eru þjóðmálefni þeirra á hverfandi hveli siðspillingarinnar«.[1] En hvað mætti Lassen segja, þar sem ekki neinir stjórnmálaflokkar geta þrifist, af því að þingmenn vilja hafa fullkomna heimild til þess að snúa sér, hvernig svo sem þeim sýnist í þann eða þann svipinn? Ef þingmenn skipa sér í flokka með ákveðinni stefnu, þá er mikið fengið. Þá er fyrst trygging fengin fyrir því, að atkvæðagreiðsla í þjóðmálefnum landsins sé eigi alveg komin undir metorðagirnd hvers einstaks þingmanns, heldur sé hún bygð á sameiginlegu ráði margra þingmanna, sem bæði vilja og geta fært ástæður fyrir gjörðum sínum.

En þó að þingflokkar komist á fót, þá er eigi alt fengið með því. Reynsla annara þjóða sýnir það, að þegar þjóðirnar standa á lágu siðferðislegu stigi, þá víla fleiri og færri þingmenn eigi fyrir sér, að svíkja sinn eigin flokk.

Þjóðirnar hafa á þessari öld verið svo önnum kafnar í því að svifta konunga völdum eða takmarka vald þeirra, en koma í þess stað þingræði, að þær hafa gleymt því, að þingræðið þarf líka að hafa sín takmörk, að þingmenn þurfa að hafa aðhald, og að það er full þörf á að gagnskoða eða gagnrýna gjörðir þingmanna á óhlutdrægan og réttlátan hátt. En í þessa átt fer tillaga mín um það, að kjósandi skuli hafa rétt til að greiða atkvæði eigi að eins með ákveðnum manni, heldur og ákveðnum flokki. Þegar svo er, þá hefur kjörþegi hans ekki lengur rétt til að svíkja flokkinn. Ef hann vill ganga úr flokknum, þá verður hann að leggja niður þingmensku sína, atkvæðin hljóta þá að falla til flokksins. Þingmaðurinn verður að bíða næstu kosninga, og leggja þá misklíðarefnið fyrir þjóðina. Þá getur það vonandi sýnt sig, hver hefur betri hvatir og meira vit. Í ljósinu sigrar hið sanna og rétta.

Þá er að athuga tillögu dr. Cassels um það, að þingmenn greiði atkvæði eftir atkvæðamagni hvers eins. Þetta er svo þýðingarmikið, að ef það er ekki tekið til greina, þá er ekki um neitt réttlæti að tala í kosningum. Ég hef áður minst á, að það væri ekki rétt, að fella hlutfallslegt gildi einhvers atkvæðis, af því að kjörþegi manns næði eigi kosningu, og því væri rétt, að veita mönnum heimild til að greiða atkvæði með flokknum. En alveg eins á það eigi að rýra hið hlutfallslega gildi atkvæðisins, þótt margir

[1] Vilh Lassen: Grundlovsforslag, í »Tilskueren« 1899, bls. 83.

gefi kjörþega atkvæði sitt. Ef 100 menn eru á samkomu, þá ráða 70 menn meira en 30, og þegar þeir kjósa sér fulltrúa, þá virðist lítið vit í því, að svifta meirihlutann ráðum sínum, þó að þeir kjósi sér færri fulltrúa en hinir. Meirihlutinn kýs, ef til vill, tvo menn fyrir sig, annan með 40 atkvæðum og hinn með 30 atkvæðum. En minnihlutinn, sem ef til vill er allur á sundrungu, kann að kjósa sér 3 fulltrúa, hvern með 10 atkvæðum. Eftir því sem nú er tízka, þá hafa þessir 3 menn meira vald en hinir tveir. En hvert réttlæti er í því, get ég eigi séð. Kjósandinn getur ekkert að því gjört, þótt aðrir, sem hann hefur engin yfirráð yfir, kjósi sama manninn, og það er hið mesta ranglæti að svifta hann borgaralegum réttindum fyrir það, sem aðrir gjöra og hann getur ekki við ráðið. Réttlætið er bezt fyrir þjóðina. Þegar kjósendur finna það, að atkvæði þeirra hafa jafnan fult hlutfallslegt gildi, þá hlýtur það ekki að eins að auka áhuga þeirra á þjóðmálefnum landsins, heldur og að vekja hjá þeim einhverja siðferðislega ábyrgðartilfinningu. Hvert einasta atkvæði á að hafa sitt hlútfallslega gildi, og þá verður hvert atkvæði svo þýðingarmikið, að á því getur riðið velferð þjóðarinnar. Sérhver kjósandi, sem eigi er siðlaus maður, hlýtur að finna til þess, að hann verður á þennan hátt eins og liðsmaður í hersveit, þar sem samvizka hans er hershöfðinginn; þó að hann hlaupi í aðrar hersveitir gegn betri vitund, þá fylgir samvizkan honum og getur hegnt honum fyrir drottinssvikin.

Ég leyfi mér að segja, að á þann hátt geti kosningarnar haft góð áhrif á þjóðina. En þetta hlýtur og að hafa góð áhrif á þingmenn, því að það veltur eigi að eins á því, að ná kosningu, heldur og að fá sem flest atkvæði. Svo sannarlega sem menn trúa á að hið sanna og rétta sé sigursælla í mannlífinu, heldur en hið ósanna og ranga, svo sannarlega mun sá þingmaðurinn fá meira fylgi, sem meiri verðleikana hefur. Og þó að einhver þingmaður með vélum og yfirdrepskap geti í eitt skifti fengið mikið fylgi, þá verður hegning hans þeim mun meiri, þegar menn snúa við honum bakinu.

Miðlungsmennirnir vilja gjöra alla jafna, einnig í þingsölunum, en ranglæti miðlungsmanna á að víkja fyrir réttlætinu.

En nú munu menn segja, að atkvæðagreiðsla sé alt of erfið, ef þingmenn eigi að greiða atkvæði eftir atkvæðamagni, en þetta er eigi alveg rétt. Þess konar atkvæðagreiðsla er alveg eins auð-

veld og venjuleg atkvæðagreiðsla. En ég vil taka hér upp orð dr. Cassels um þetta efni. Hann segir svo:

»Auðvitað má haga atkvæðagreiðslunni á venjulegan hátt, þannig, að hinar mismunandi atkvæðatölur þingmanna séu skrifaðar upp og lagðar saman. Þessi aðferð er mjög seinleg, en með reiknivélum o. s. frv. má þó gjöra atkvæðagreiðsluna miklu auðveldari. Atkvæðagreiðslan getur einnig verið auðveld á þann hátt, að þingmenn þrýsti á rafmagnshún, og með sérstakri vél væri hægt á svipstundu að telja saman atkvæði þingmanna. Það er einnig hægt — bókstaflega — að vega atkvæðin: Sérhver þingmaður hefur silfurkúlu, sem vegur jafnmörg sentígrömm, sem hann hefur fengið atkvæði, og svo má vega atkvæðin á metaskálum. Ef vill, má með ljósfærum sýna mundang metaskálanna á vegg í þingsalnum, svo að þingmenn geti séð, hvernig vogin hreyfist, meðan á atkvæðagreiðslunni stendur. Slík atkvæðagreiðsla mundi að minsta kosti vera skemtilegri en venjulegur upplestur á »jáum« og »neium«.[1]

Ég skal svo með fáum orðum nefna meginreglur þær, sem um hefur verið rætt, og hverjar eru afleiðingar þeirra:

1. Kjósendum á að vera mögulegt að neyta kosningarréttar. Af þessu leiðir, að kjörstaðir á Íslandi eiga að vera að minsta kosti einn í hverjum hreppi.

2. Kjósendur eiga að geta kosið framboðana eftir eigin sannfæringu. Af þessu leiðir fyrst og fremst, að atkvæðagreiðslan á að vera leynileg, og í öðru lagi, að kjördæmaskiftingin á að falla, en landið að verða eitt kjördæmi, svo að hver kjósandi geti kosið hvern framboða, sem sannfæring hans bendir honum á, hvar svo sem framboðinn er á landinu.

3. Atkvæði hvers kjósanda á að hafa fult gildi í hlutfalli við atkvæði annara kjósenda. Af þessu leiðir auðvitað, að öll kjördæmaskifting getur eigi átt sér stað, en að öðru leyti er afleiðing af þessu fyrst og fremst sú, að hver kjósandi á að eins að kjósa einn fulltrúa af framboðum landsins, í öðru lagi að atkvæði hvers fulltrúa á að hafa á þingi gildi eftir þeim atkvæðafjölda, sem fulltrúinn hefur fengið við kosninguna, og loks er afleiðingin sú, að ef fulltrúi kjósandans fellur, þá á atkvæði kjósandans að teljast þeim flokki til gildis, er hann fylgir.

[1] »Tilskueren« 1896, bls. 476. Sjá einnig »Brockhaus' Konversations-Lexikon« 1898, 17. bindi: »Abstimmungsapparate« og »Abstimmungstelegraphen«.

Ég hef nú í raun réttri ekki meira að segja. En samt vil ég reyna að gjöra það nokkuð ljósara, hvernig kosningar mundu fara fram eftir því, sem hér hefur verið haldið fram. Ég verð því að biðja menn að koma á einhvern kjörfund í einhverjum hreppi og sjá, hvað fram fer.

Á kjörstaðnum eru margir menn og hestar, fólk að koma, menn að fara úr reiðfötum, spretta af hestum o. s. frv. Þinghúsið stendur opið og vér göngum inn. Þar eru nokkrir menn fyrir. Við þingborðið situr hreppstjórinn og tveir menn, kosnir af sýslunefnd, til þess að stjórna kosningunum ásamt hreppstjóra. Til hliðar í þinghúsinu er skrifpúlt og þiljað í kring, en á þingborðinu er kassi einkennilega lagaður og grunar okkur þegar, að það sé atkvæðakassinn.

Nú fer að líða að hádegi og orðið mannmargt í þinghúsinu. Hreppstjórinn segir við sessunauta sína: »Eru atkvæðaseðlarnir við höndina og bækurnar«. Þeir játa því. Rís þá hreppstjóri upp úr sæti sínu og segir: »Ég lýsi því yfir, að kjörþing N. hrepps er sett«. Les hann síðan upp kosningarbréf um kosningar til alþingis og nokkur fleiri bréf um kosningarnar. Síðan tekur hann til máls og segir: »Við þessar kosningar hafa boðið sig fram 46 menn. Af þeim eru 20 vinstrimenn og hafa þeir merkið **V**, 20 framboðar eru hægrimenn og hafa þeir merkið **H**. Loks eru 6 flokksleysingjar. Þeir hafa ekkert sérstakt merki, en samt er bætt við nöfn þeirra merkinu **F**, til að sýna, að þeir séu í engum flokki. Framboðar eru allir á atkvæðaseðlum, sem hver kjósandi fær eitt eintak af. Kjósandi á að setja kross við nafn þess þingmanns, er hann kýs, og við merki þess flokks, er hann vill fylgja. Skora ég nú á kjósendur að koma fram eftir því sem nöfn þeirra eru lesin upp, og kjósa þingmenn um næsta 6 ára tímabil«.

Síðan les hreppstjórinn upp fyrsta nafnið á kjörskránni og bætir við: »Ég skora á kjósendur að gefa gott rúm þeim, sem nefndur er«. Kemur þá einn kjósandi fram úr mannþrönginni, gengur inn að þingborðinu, tekur við atkvæðaseðli, fer síðan að skrifpúltinu og setur þar krossa á tveim stöðum, án þess að nokkur geti vitað, hverjum hann gefur atkvæði. Síðan leggur hann atkvæðaseðilinn saman, gengur að atkvæðakassanum og leggur seðilinn í kassann. Annar sessunautur hreppstjórans skrifar, hver greiði atkvæði, en hinn skrifar við nafn kjósandans að hann hafi greitt atkvæði.

Síðan kemur einn kjósandi á fætur öðrum og fer á sömu

veld og venjuleg atkvæðagreiðsla. En ég vil taka hér upp orð dr. Cassels um þetta efni. Hann segir svo:

»Auðvitað má haga atkvæðagreiðslunni á venjulegan hátt, þannig, að hinar mismunandi atkvæðatölur þingmanna séu skrifaðar upp og lagðar saman. Þessi aðferð er mjög seinleg, en með reiknivélum o. s. frv. má þó gjöra atkvæðagreiðsluna miklu auðveldari. Atkvæðagreiðslan getur einnig verið auðveld á þann hátt, að þingmenn þrýsti á rafmagnshún, og með sérstakri vél væri hægt á svipstundu að telja saman atkvæði þingmanna. Það er einnig hægt — bókstaflega — að vega atkvæðin: Sérhver þingmaður hefur silfurkúlu, sem vegur jafnmörg sentígrömm, sem hann hefur fengið atkvæði, og svo má vega atkvæðin á metaskálum. Ef vill, má með ljósfærum sýna mundang metaskálanna á vegg í þingsalnum, svo að þingmenn geti séð, hvernig vogin hreyfist, meðan á atkvæðagreiðslunni stendur. Slík atkvæðagreiðsla mundi að minsta kosti vera skemtilegri en venjulegur upplestur á »jáum« og »neium«.[1]

Ég skal svo með fáum orðum nefna meginreglur þær, sem um hefur verið rætt, og hverjar eru afleiðingar þeirra:

1. Kjósendum á að vera mögulegt að neyta kosningarréttar. Af þessu leiðir, að kjörstaðir á Íslandi eiga að vera að minsta kosti einn í hverjum hreppi.

2. Kjósendur eiga að geta kosið framboðana eftir eigin sannfæringu. Af þessu leiðir fyrst og fremst, að atkvæðagreiðslan á að vera leynileg, og í öðru lagi, að kjördæmaskiftingin á að falla, en landið að verða eitt kjördæmi, svo að hver kjósandi geti kosið hvern framboða, sem sannfæring hans bendir honum á, hvar svo sem framboðinn er á landinu.

3. Atkvæði hvers kjósanda á að hafa fult gildi í hlutfalli við atkvæði annara kjósenda. Af þessu leiðir auðvitað, að öll kjördæmaskifting getur eigi átt sér stað, en að öðru leyti er afleiðing af þessu fyrst og fremst sú, að hver kjósandi á að eins að kjósa einn fulltrúa af framboðum landsins, í öðru lagi að atkvæði hvers fulltrúa á að hafa á þingi gildi eftir þeim atkvæðafjölda, sem fulltrúinn hefur fengið við kosninguna, og loks er afleiðingin sú, að ef fulltrúi kjósandans fellur, þá á atkvæði kjósandans að teljast þeim flokki til gildis, er hann fylgir.

---

[1] »Tilskueren« 1896, bls. 476. Sjá einnig »Brockhaus' Konversations-Lexikon« 1898, 17. bindi: »Abstimmungsapparate« og »Abstimmungstelegraphen«.

Ég hef nú í raun réttri ekki meira að segja. En samt vil ég reyna að gjöra það nokkuð ljósara, hvernig kosningar mundu fara fram eftir því, sem hér hefur verið haldið fram. Ég verð því að biðja menn að koma á einhvern kjörfund í einhverjum hreppi og sjá, hvað fram fer.

Á kjörstaðnum eru margir menn og hestar, fólk að koma, menn að fara úr reiðfötum, spretta af hestum o. s. frv. Þinghúsið stendur opið og vér göngum inn. Þar eru nokkrir menn fyrir. Við þingborðið situr hreppstjórinn og tveir menn, kosnir af sýslunefnd, til þess að stjórna kosningunum ásamt hreppstjóra. Til hliðar í þinghúsinu er skrifpúlt og þiljað í kring, en á þingborðinu er kassi einkennilega lagaður og grunar okkur þegar, að það sé atkvæðakassinn.

Nú fer að líða að hádegi og orðið mannmargt í þinghúsinu. Hreppstjórinn segir við sessunauta sína: »Eru atkvæðaseðlarnir við höndina og bækurnar«. Þeir játa því. Rís þá hreppstjóri upp úr sæti sínu og segir: »Ég lýsi því yfir, að kjörþing N. hrepps er sett«. Les hann síðan upp kosningarbréf um kosningar til alþingis og nokkur fleiri bréf um kosningarnar. Síðan tekur hann til máls og segir: »Við þessar kosningar hafa boðið sig fram 46 menn. Af þeim eru 20 vinstrimenn og hafa þeir merkið **V**, 20 framboðar eru hægrimenn og hafa þeir merkið **H**. Loks eru 6 flokksleysingjar. Þeir hafa ekkert sérstakt merki, en samt er bætt við nöfn þeirra merkinu **F**, til að sýna, að þeir séu í engum flokki. Framboðar eru allir á atkvæðaseðlum, sem hver kjósandi fær eitt eintak af. Kjósandi á að setja kross við nafn þess þingmanns, er hann kýs, og við merki þess flokks, er hann vill fylgja. Skora ég nú á kjósendur að koma fram eftir því sem nöfn þeirra eru lesin upp, og kjósa þingmenn um næsta 6 ára tímabil«.

Síðan les hreppstjórinn upp fyrsta nafnið á kjörskránni og bætir við: »Ég skora á kjósendur að gefa gott rúm þeim, sem nefndur er«. Kemur þá einn kjósandi fram úr mannþrönginni, gengur inn að þingborðinu, tekur við atkvæðaseðli, fer síðan að skrifpúltinu og setur þar krossa á tveim stöðum, án þess að nokkur geti vitað, hverjum hann gefur atkvæði. Síðan leggur hann atkvæðaseðilinn saman, gengur að atkvæðakassanum og leggur seðilinn í kassann. Annar sessunautur hreppstjórans skrifar, hver greiði atkvæði, en hinn skrifar við nafn kjósandans að hann hafi greitt atkvæði.

Síðan kemur einn kjósandi á fætur öðrum og fer á sömu

leið, unz allir viðstaddir hafa kosið. Koma þá fram tveir menn með bréf; segja þeir, að kjósandi, er þeir nefna, sé veikur og hafi beðið þá fyrir stundu að afhenda kjörstjórninni bréf þetta með atkvæði hans í. Hreppstjórinn merkir bréfið og lætur það svo i atkvæðakassann, en sessunautur hans ritar í kjörbókina, hvað fram fer.

Eftir að góður tími er liðinn, svo að allir kjósendur geti enn komið fram, er kjörbókin lesin upp og borin saman við atkvæðaskrárnar. Síðan er atkvæðakassanum lokað, búið um hann og innsigli sett á hann. Kjörskjölin eru svo tafarlaust send til kjörstjórnar í sýslunni, sem telur atkvæðin saman og sendir skýrslu um þau með nauðsynlegum skjölum til aðalkjörstjórnar í Reykjavík.

Ef einhvern tíma kæmi hér á landi talsími, mætti síma atkvæðagreiðsluna til Reykjavíkur og á þann hátt þyrftu menn eigi lengi að bíða, þangað til það yrði kunnugt um land alt, hvernig kosningar hefðu fallið.

En til þess nú að vita um kosningarnar, þarf að fara til Reykjavíkur, og gjöri ég því ráð fyrir, að vér komum þangað i sama bili, sem kjörsalurin er opnaður, til þess að kosningarnar verði birtar. Vér troðumst því inn með öðrum góðum mönnum. Fyrir miðju sitja 5 menn. Hafa þeir kosningaskjölin fyrir framan sig, enda er þetta aðalkjörstjórn landsins. Á miðjum vegg er tafla mikil og ritað á hana:

SKÝRSLA
um kosningar til alþingis árið 19 . .

| Tala | Nöfn framboða | Vinstri-menn V | Hægri-menn H | Flokkleys-ingjar F | Samtals atkvæði |
|---|---|---|---|---|---|
| 1 | A | 400 | 410 | 190 | 1000 |
| 2 | B | 300 | 350 | (140) | 650 |
| 3 | C | 260 | 290 | (100) | 550 |
| 4 | D | 200 | 250 | (30) | 450 |
| 5 | E | 180 | 190 | (19) | 370 |
| 6 | F | 160 | 180 | (10) | 340 |
| 7 | G | 160 | 170 | » | 330 |
| 8 | H | 150 | 160 | » | 310 |
| 9 | I | 140 | 150 | » | 290 |
| 10 | J | 130 | 130 | » | 260 |
| | flyt . . . | 2080 | 2280 | 190 | 4550 |

| Tala | Nöfn framboða | Vinstrimenn V | Hægrimenn H | Flokkleysingjar F | Samtals atkvæði |
|---|---|---|---|---|---|
| | ⁄ flutt . . . | 2080 | 2280 | 190 | 4550 |
| 11 | K | 125 | 120 | » | 245 |
| 12 | L | 110 | 80 | » | 190 |
| 13 | M | 105 | 70 | » | 175 |
| 14 | N | 80 | 60 | » | 140 |
| 15 | O | 51 | 40 | » | 91 |
| 16 | P | 40 | 40 | » | 80 |
| 17 | Q | 40 | 35 | » | 75 |
| 18 | R | 30 | 30 | » | 60 |
| 19 | S | 20 | 20 | » | 40 |
| 20 | T | 20 | 15 | » | 35 |
| 21 | Engin nöfn | 300 | 20 | » | 320 |
| | Samtals . . . | 3001 | 2810 | 190 | 6001 |

Formaður kjörstjórnarinnar rís upp úr sæti sínu og segir: »Kosningar til alþingis hafa fallið þannig, að aldrei hafa á þessu landi jafnmargir menn neytt kosningarréttar síns. Af 6557 kjósendum hafa 6300 greitt atkvæði. Eins og stendur á skýrslu þessari — um leið bendir hann á skýrsluna á veggnum — hafa vinstrimenn fengið 3001 atkvæði, hægrimenn 2810 og flokkleysingjar 489. En af 6 flokkleysingjum hefur að eins einn fengið nægan atkvæðafjölda til þess að ná kosningu. Framboðinn **AF** hefur fengið 190 atkvæði, en hinir hafa fallið og með þeim 299 atkvæði, sem eigi geta komið til greina. Það eru því alls 6001 atkvæði, sem koma til greina.

Vinstrimenn hafa fengið 3001 atkvæði og eiga þeir því að hafa 15 þingmenn. Hægrimenn hafa fengið 2810 atkvæði og hafa því 14 þingmenn og svo er einn flokkleysingi. Af vinstrimönnum hafa fengið flest atkvæði nr. 1—15 og þá eru eftir 150 atkvæði hinna þingmannanna, auk þeirra 300 atkvæða, sem flokkurinn hefur fengið. Þessi 450 atkvæði áttu að skiftast milli þeirra 15, sem hafa náð kosningu, þannig að hver fengi til meðferðar 30 atkvæði auk sinna eigin atkvæða, en nú er framboðinn **FV** dáinn, og þá stóðu næstir framboðarnir **PV** og **QV**, sem hafa fengið 40 atkvæði hvor. Af þeim hefur **PV** hlotið kosningu með hlutkesti, en 570 atkvæði koma til skifta, þannig, að hver þingmaður af þeim 15, sem kosningu hafa náð, fær 38 atkvæði til meðferðar auk sinna

eigin. Hefur þannig fyrsti þingmaðurinn AV 438 atkvæði, sem han tekur þátt í atkvæðagreiðslu á þingi með.

Af hægrimönnum hafa nr. 1—14 fengið flest atkvæði, og fær hver þeirra 14 atkvæði til meðferðar auk sinna eigin atkvæða.

Þjóðin hefur því kosið þannig, að vinstrimenn hafa fengið meirihluta atkvæða þeirra, sem geta komið til greina. Þeir eiga því að ráða á næstu 3 alþingum. Þó einhver deyi kemur annar flokksmaður í hans stað, og ef einhver vill eigi fylgja flokknum. þá verður hann að fara af þingi og næsti framboði kemur í hans stað. Þjóðin hefur kosið vinstrimenn til ráða og þessu getur enginn einn þingmaður breytt eftir þugþótta sínum. Á þennan hátt er fengin festa í stjórnarfari landsins, og stefnubreyting verður fyrst, ef þjóðin kýs aðra til ráða við næstu kosningar, hvort sem þær verða eftir 6 ár eða fyrri, ef alþingi skyldi verða leyst upp«.

Þegar formaður hafði lokið máli sínu, gengu menn út, og voru margir glaðir yfir því, að Ísland hefði nú loks fengið lög, sem hefðu það í för með sér, að landsmenn tækju fullkominn þátt í kosningum til löggjafarþingsins, og að löggjafarþingið á Íslandi yrði þrátt fyrir fámenni sitt hið fyrsta þing í heimi, sem fullnægði þeirri kröfu stjórnvitringsins Mirabeaus, að vera hið sama fyrir þjóðina, sem landsuppdrátturinn er fyrir landið, og sem loks hefðu það í för með sér, að þingmenn myndu vinna að framfaramálum þjóðarinnar með miklu meiri einingu og fylgi, og stjórnarfar landsins fengi þá festu, sem landi og lýð væri nauðsynleg.

*Páll Briem.*

---

# Nokkur kvæði.

## I. BALDURSBRÁIN.

Þig, *Baldursbrá!* eg lít,
Þú brosir við mér gul og hvít,
Með ljóssins litum skær,
Er lofts þér vaggar blær,

Enn grærðu á foldu frið,
Sem fyr á *Baldurs* ríkis tíð,
Þá *Breiðabliks* frá reit
Með blíðu hann til þín leit.

Nær sprattstu fyrst á fold
Og fögru lyftir höfði úr mold?
Hvort laukstu upp bjartri brá
Þá *Baldur Nönnu* sá
Og ólst fyrst ástin sú,
Sem enn í helju reyndist trú?
Gaf hún það heitið þér,
Sem hans af líking er?

Og hvort var þér ei hrygð,
Er harma réð öll jarðarbygð
Sinn horfna hugljúfann,
Er heljar gisti rann?
Og góðan guðinn þá
er gráta skyldi helju frá,
Hvert blóm um jarðar bú
Grét Baldur eins og þú?

Nú hvar sem hér á jörð
Um haga og tún þú prýðir svörð,
Svo himinhrein og prúð,
Með hvítt og gulleitt skrúð,
Ó, ljósa Baldursbrá!
Þú Baldur góða minnir á,
Við aldaársins stig
Sem átti Nönnu og þig.

Þinn ljósguð liðinn er
Og ljósguð annan göfgum vèr,
Sem æðri birtu bjó,
En Baldur kær er þó.
Þó flest oss finnist breytt,
Hið fagra, góða og sanna er eitt
Um alla heimsins öld
Og ekkert þekkir kvöld.

Þú minnis blómið bjart,
Ó berðu um aldur heilagt skart,
Sem fyrnska ei fölvar nein,
Þú frómleiks jarteikn hrein!
Og hef þín hvítu blöð
Mót himni bláum morgunglöð.
Þar góður guð enn er,
Sem gjörvöll jarðblóm sér.

---

## II. MÓÐIR KVEÐUR VIÐ VÖGGU.

Sofnuð ertu, elskan smá!
Uppi er máni á himni blá.
Inn um ljóra ljósið sitt
leggur hann á andlit þitt.

Á því ljósið er svo skært,
Andann dregur þú svo vært,
Eins og himnesk unaðs-fró
Innsiglaði þína ró.

Margt er vinlegt, vænt og hýrt
Viður mánaljósið skírt,
En þó snýr hvað vænst því við
Vafið blundi sakleysið.

Úti er blíðan yndisleg,
Enn þá hjá þér vaki ég,
Meðan ljúfa ljósið sitt
Leggur máni' á andlit þitt.

Senn það ljóra líður frá,
Legst ég og til hvíldar þá;
Vernd guðs falin faðmi oss rótt
Friðblíð, himnesk þessi nótt.

---

## III. NÝGRÆÐINGAR.

Hvað nú lít eg hér um slóðir?
Horfir hér til umbreytingar?
Grám í auðnum ótal lágir
Anga birkis nýgræðingar.

Blásna mela, berar skriður,
Börð, er eyðing gjörði að nekja,
Nýgróandi birki er byrjað
Blettum grænum víða að þekja.

Ei dvín jarðar eðlisþróttur,
Undir dauða lífið blundar;
Sendir móðir anga unga
Arfa sína við til fundar.

Hver þá mundu boð þeir bera?
Blakta lauf í vindi þíðum;
Mætum beiddi mögum heilsa
Móðir haldin sorgum stríðum.

»Heilsið«, kvað hún, »bygða brögnum
Brýnast þó samt lýðnum unga.
Ó að sérhvert ykkar laufið
orðið væri málgædd tunga!

Segið þeim, hin mædda móðir
Mjög að þrái bót á skrúði,
Fyrndu nú, en fyrrum grænu,
Fríða er reifði eyjarbrúði.

Upp er runnin öldin nýja,
Yngjast skyldi storð með lýðnum
Fullum hugar, fremdargjörnum,
Fúsum starfs og hvergi kvíðnum.

Þekkja skyldu mínir megir
Meinleg upptök skemdar hruna;
Stríður af því stendur voði,
Styðji' ei mannshönd náttúruna.

Sitt þeir eftir láti ei liggja
Loksins gróðri virkt að sýna;
Þróun blómleg þá mun hefja
Þeirra nýgræðinga og mína.

Hlífi gömlu, hlynni nýju
hagspaklega gætinn lýður,
Græði út, en eyðing varist,
Óráð niðja móður svíður.

Nýgræðingar dýrstir, dafnið,
Dúðið hrjóstrin fagursettum
Skóg, þar fuglar syngja síðar
Sætt í laufabaðmi þéttum.

Allir prýði, enginn níði,
Óspart vinni hendur slyngar;
Þá mun sælli sona æfin —
Segið þeim það, nýgræðingar!«

---

## IV. SÚLD.

Hin eilífa súldin, er sveipar nú loft
Með seigþykkan, blýfastan vætuham gráan,
Hve leið er hún orðin, hve óska ég oft
Að endursjá sólina og himininn bláan.

Sú súldin er orðin sem ólundin leið,
Á andliti', er stöðugri svipkergju heldur,
Þar helzt sæjum góðlátleg gleðibros heið,
En getum ei skilið, hvað fýlunni veldur.

Nú vor stendur yfir og orðið er grænt;
Hví er þá svo dapurt? þú sól! vilt ei skína.
En alt mundi þá hafa viðmót svo vænt,
Ef vantaði' ei himnesku geislana þína.

Því hrektu burt súldina, er ógeðið ól,
Þú, alt sem að lífgar og fróar bezt geði.
Lát skýþyknið rofið og sýndu þig, sól!
Eg særi þig, komdu með ljós, yl og gleði.

---

## V. SKÁLD OG SKYTTA.

»Þar syndir hann, svanurinn prúði,
Um silfurblikandi lá,
Á vatninu í dalnum, er dreymir
Und dagssólar gullin-brá.

Hve sjálega sveigðum með hálsi
Og samreistum vængjum hann skín;
Hve ununar fagurt hann ómar
Með engilblíð hljóðin sín!

Á svaninn ég horfi og hlýði
Og hugfanginn uni þar við.
Hve sæll er hann, svanurinn fagri,
Í sumarsins himneska frið«.

Svo skáld eitt, er sat undir skógrunn,
Hjá skærbláa vatninu kvað.
Þá hlunkar og bregður upp bláreyk
Úr bjarkskógnum öðrum í stað.

Og svanurinn særður til bana
Með sama þá út af hraut
Og dreyrmerktur hvítum á dúni
Þar dauður á vatninu flaut.

Og skotmaður skaut þá fram kænu,
Í skyndi fékk svaninum náð
Og kankvís í kampinn glotti
Með kæti, því feit sýndist bráð.

Og vatnsbakkann við hann lenti
Með veiðina, sem hann fékk,
Og ánægður hrósaði happi;
En hugsandi skáldið burt gekk.

Með sæluna og friðinn gekk svona,
Alt svipult er þessum í heim,
Og á þeim signaða svani
Hve sundurleit skoðun hjá tveim.

Þeim öðrum í fuglslíki engill
Með alskæra sönghljóða gerð,
En hinum hálfbróðir gæsar
Og hentur í gómtaman verð.

---

## VI. Í NÁND VIÐ ÆSKUSTÖÐVAR.

Ég sé undir morgunsins sunnu
Við sjónhring í vestrinu yzt.
Hvar *Stapafell* stendur hjá *Jökli*,
Á strönd þar ég daginn leit fyrst.
Það brúnleita fellið rís frammi
Hinn fannþakta Jökulinn við,
Því skapað var skáhalt að standa,
Sem skjaldsveinn við kempunnar hlið.

Svo nálgast ég átthaga æsku,
Er árin um mörg ég ei sá.
Þér hlíðar, gjár, hraun, klif og fossar,
Ég hlakka til ykkur að sjá.
Ei fýsir mig förinni að dvala
Við fagrahvels byrjandi rás;
Ég hraða mér heim þig að sækja,
Minn hollvinur, *Snæfellsins ás!*

*Sigr. Th.*

---

# Dóttir mín.

Hugur minn reikar víða dag og nótt. En ég get aldrei slitið hann frá dóttur minni stundinni lengur, þótt ég feginn vildi.

Hún hét Von.

Ég skírði hana ekki, hvorki ég né presturinn og enginn maður, en þó hét hún þessu nafni og heitir enn; — átti aldrei annað heiti og gat ekki borið annað nafn.

Hún varð ekki til fyrir samverknað tveggja kynja. Það veit ég vel. En ég veit þó ekki hvernig hún myndaðist. Ég get að eins sagt þetta: hún varð til líkt og skýið uppi í hásölum heiðríkjunnar, sem er einangrað og enga sýnilega aðdrætti hefur. Enginn veit fyrir hvern skýið er gert, nema ef vera skyldi fyrir kvöldroðann, sem glitvefur það og hringleggur með rósrauðri bryddingu. Svo mókir það um stund á kvöldkyrrum himninum eins og skip, sem bíður byrjar á lognsvæfðum legi. Fáein mannsaugu stara á það um stundarsakir og nokkrir mannshugir dást að því fáein augnablik, og veðurglöggu mennirnir spá góðviðri næstu tíð.

En svo gengur sólin undir. Nóttin rænir það kögrinum og sortulitar milli jaðranna. — Þá eru dagar þess taldir.

Skyldu örlög dóttur minnar verða ein og hin sömu?

Ég spurði út í bláinn.

En enginn svaraði.

Mér fanst dóttir mín vera allra meybarna fegurst, og ég óskaði jafnan, að hún fengi að lifa og þroskast.

En mér sagði þungt hugur um framtíð hennar.

Eg óttaðist, að fegurð hennar yrði jafnskammvinn, sem gullborðar kvöldroðans, sem nóttin upplitar í hendingskasti.

Þetta rættist líka von bráðar. Von litla hafði stutta stund lifað, þegar hún tók vanheilsu.

Það var. fyrst lengi, að ég vissi ekki hvað að henni gekk. Hún gat sagt það eitt, að sér væri ilt; en hún gat ekki gert ljósari grein fyrir sjúkleikanum.

Ég sá líka, að hún tók ekki á heilli sér. Dapurleiki hennar og ógleði lágu í augum uppi, þótt hún bæri sig vel; því að hún kveinaði aldrei né kvartaði.

Ég sá þegar í hendi minni, að ég var ekki maður til að fóstra Von litlu eins dálega og þörf hennar krafði, og skorti mig þó

Með sæluna og friðinn gekk svona,
Alt svipult er þessum í heim,
Og á þeim signaða svani
Hve sundurleit skoðun hjá tveim.

Þeim öðrum í fuglslíki engill
Með alskæra sönghljóða gerð,
En hinum hálfbróðir gæsar
Og hentur í gómtaman verð.

---

## VI. Í NÁND VIÐ ÆSKUSTÖÐVAR.

Ég sé undir morgunsins sunnu
Við sjónhring í vestrinu yzt.
Hvar *Stapafell* stendur hjá *Jökli*,
Á strönd þar ég daginn leit fyrst.
Það brúnleita fellið rís frammi
Hinn fannþakta Jökulinn við,
Því skapað var skáhalt að standa,
Sem skjaldsveinn við kempunnar hlið.

Svo nálgast ég átthaga æsku,
Er árin um mörg ég ei sá.
Þér hlíðar, gjár, hraun, klif og fossar,
Ég hlakka til ykkur að sjá.
Ei fýsir mig förinni að dvala
Við fagrahvels byrjandi rás;
Ég hraða mér heim þig að sækja,
Minn hollvinur, *Snæfellsins ás!*

*Stgr. Th.*

---

## Dóttir mín.

---

Hugur minn reikar víða dag og nótt. En ég get aldrei slitið hann frá dóttur minni stundinni lengur, þótt ég feginn vildi.

Hún hét Von.

Ég skírði hana ekki, hvorki ég né presturinn og enginn maður, en þó hét hún þessu nafni og heitir enn; — átti aldrei annað heiti og gat ekki borið annað nafn.

Hún varð ekki til fyrir samverknað tveggja kynja. Það veit ég vel. En ég veit þó ekki hvernig hún myndaðist. Ég get að eins sagt þetta: hún varð til líkt og skýið uppi í hásölum heiðríkjunnar, sem er einangrað og enga sýnilega aðdrætti hefur. Enginn veit fyrir hvern skýið er gert, nema ef vera skyldi fyrir kvöldroðann, sem glitvefur það og hringleggur með rósrauðri bryddingu. Svo mókir það um stund á kvöldkyrrum himninum eins og skip, sem bíður byrjar á lognsvæfðum legi. Fáein mannsaugu stara á það um stundarsakir og nokkrir mannshugir dást að því fáein augnablik, og veðurglöggu mennirnir spá góðviðri næstu tíð. En svo gengur sólin undir. Nóttin rænir það kögrinum og sortulitar milli jaðranna. — Þá eru dagar þess taldir.

Skyldu örlög dóttur minnar verða ein og hin sömu?

Ég spurði út í bláinn.

En enginn svaraði.

Mér fanst dóttir mín vera allra meybarna fegurst, og ég óskaði jafnan, að hún fengi að lifa og þroskast.

En mér sagði þungt hugur um framtíð hennar.

Eg óttaðist, að fegurð hennar yrði jafnskammvinn, sem gullborðar kvöldroðans, sem nóttin upplitar í hendingskasti.

Þetta rættist líka von bráðar. Von litla hafði stutta stund lifað, þegar hún tók vanheilsu.

Það var. fyrst lengi, að ég vissi ekki hvað að henni gekk. Hún gat sagt það eitt, að sér væri ilt; en hún gat ekki gert ljósari grein fyrir sjúkleikanum.

Ég sá líka, að hún tók ekki á heilli sér. Dapurleiki hennar og ógleði lágu í augum uppi, þótt hún bæri sig vel; því að hún kveinaði aldrei né kvartaði.

Ég sá þegar í hendi minni, að ég var ekki maður til að fóstra Von litlu eins dálega og þörf hennar krafði, og skorti mig þó

hvorki viljann né viðleitnina. En ég hafði ekki skilyrðin. Mig vantaði móðurbrjóstið til að næra hana við og alla þá nærgætnu umhyggju, sem kvenneðlið eitt hefir þegið, og móðurástin hefir til umráða. Ég sá og skildi, að ég varð að koma henni í fóstur, hvað sem það kostaði.

Ég var í engum vafa um það, hvar ég skyldi leitast fyrir um fósturvistina. En stúlkan — eina stúlkan, sem ég trúði fyrir Von minni, sem ég vildi vita hana hjá og sem ég gat hugsað til að eiga hana hjá, — hún vildi ekki taka barnið.

Ég lagði að henni oft og tíðum, stráði um hana rigningu af hlýjum og mjúkum orðum og leit á hana helmingi stærri augum en alla aðra kvennmenn og heldur en ég hugði, að ég ætti til í eigu minni. Augu mín strjáluðu ljósgjöflum, ylríkum geislum, sem allir streymdu til hennar og ófu fjöllitan friðarboga kringum höfuð hennar og hjarta.

En hún braut af sér bænageislana og tók fálega móti hljómþýðri viðleitni óska minna.

Hún hafði jafnan sömu svörin: »Ég get ekki, vil ekki að hún veslist upp og deyi í mínum höndum«. Ég heyrði á röddinni, að einráðinn hugur fylgdi orðunum. En það þótti mér kynlegt, að hún horfði eftir mér löngum augum, þegar ég sneri mér frá henni og hún hélt, að ég sæi ekki til sín.

---

Dagarnir komu og hurfu. Vikur og mánuðir liðu.

Þegar Von litla kom í heiminn, varð ég svo glaður, að ég réði mér varla. Ég gerði mér í hugarlund, að hún myndi létta mér lífið, gefa mér hvöt til að lifa gagnsömu lífi, og ég hélt, að ég fengi fyrirhöfnina endurgoldna síðar. Ég hélt, að hún myndi verða sparisjóður krafta minna og sá arineldur, sem hrumleiki minn og ellibeygja gætu vermt sig við á hélukvöldum og haustnóttum æfi minnar.

Hugsanirnar brugðu sér á leik: Hvað gerði það mér til, þótt hríðin drægi þúsund fjalla þyngd af fönn norðan úr Hvítabjarnarlandi og inn í dalinn minn, svo að ófærðin yrði óvæð á öllum stigum, sem liggja til mannabygða? — Hvaða mein var mér að því, þótt hún sópaði fönninni á hrímlagðan gluggann, svo að ég gæti hvorki lesið né skrifað? Ég bar Von litlu á skauti mínu, læsti örmum mínum um hana og þar hélt ég, að henni væri

borgið, þó að veturinn herjaði gjörvalt landið og næmi sér bólstað uppi á þekjunni.

---

En ímyndun mín hafði skamma stund flogið, þegar hún vængbrotnaði: Von litla misti heilsuna. Áður var hún blómleg og rjóð ásýndum. En nú varð hún þunnleit og döpur. Augnaráðið varð ýmist flóttalegt eða starandi. Hún varð glámskygn, sá vofur í dagsbirtunni, eldglæringar í hálfrökkri og þokuhillingar í sólskini.

Svo varð hún einræn og utan veltu, vildi ekkert, sem í boði var, en æskti hins, sem var ófáanlegt. Sjónhverfingunum, er hún varð fyrir, fylgdi hugsýki, sem ekki varð komið á flótta. Hún þornaði inn í sjálfa sig, visnaði öll og veslaðist upp og seinast varð hún að kryplingi. Hún tók stakkaskiftunum smámsaman; en þessi varð endalyktin.

En því vanheilli sem hún varð, þess vænna þótti mér um hana.

Í fyrstu var hún uppsprettulind gleði minnar og framtíðardrauma. En nú vöfðust allar instu tilfinningar mínar um hana og knýttust. Milli okkar lágu duldir þræðir, nokkurs konar blóðbönd, sem fluttu áhrif og tilfinningar milli okkar svo fljótt og rakleiðis, sem hljóðöldur berast í lausu lofti.

Hún gat ekki frá mér farið og ég gat ekki séð af henni né við hana skilið. Hún var eina myndin, sem blasti við augum mínum á daginn og hún leiddi drauma mína á götu hverja nótt.

Ég hefði getað sætt mig við, að láta hana í klaustur, úr því sem nú var að ráða; því að hún var guðelsk, þó ótrúlegt kunni að þykja, þar sem hún var dóttir mín.

En ekkert klaustur var til í landinu.

---

Svo fór ég til læknanna og spurði þá ráða.

En í lyfjabúðum þeirra var ekkert að hafa nema spíritus.

Ég gekk í sölubúðirnar, þrengdi mér gegnum slæpingaþvögguna innan við dyrnar og skimaði í hólf og gólf.

En þar var ekkert til, er sjúkum mætti að gagni verða, annað en »lífs«-bittir og voltakross.

Reyndar voru hillurnar hlaðnar náklæðalíni og líkkistusvertu, sem kom í góðar þarfir síðan læknunum fjölgaði. En ég lét þá blessun liggja kyrra. Ég ætlaði aldrei að kistuleggja barnið, þó

